# Rimur

af

# Aristómenesi og Gorgi,

orktar

af

Sigurdi Breidfjörd.



Dimmu grandi sorga senn
svipti þjódir bøgur,
svefns í landi indi enn
ali ljódin' føgur.
Sn. B.



Kaupmannahöfn.
Á kostnad A. O. Thorlacius.
Prentadar hjá S. L. Møller.
1836.

# Firsta Ríma.

## Frumhenda.

1. Herjans-dísir vitjed vor! og valkirjurnar hørdu! sem bølvísar bleitid spor blóds á dimmu jørdu.
2. Síngid frá og sínid þad um sóknar rauda haga, hvorjum sáud bíta blad best í firri daga.
3. Á valstreingja-hørpu hátt hljóminn látid skarta, síngid meingi málma slátt Messenínga og Sparta.
4. Eirum slitid ofsum þad: allra frægdar-manna hæzt hvör sitji sumbli ad í sølum Einherjanna.
5. Hlífa drígid hljóminn hvar hetjur sverdum slíka; eg á gíu Idunnar undir tóna líka.
6. Hvíla leingi ekki átt Idunn! saunginn frána, nía streingi og níann hátt nú mér verdur lána.
7. Lifni og vari mest sem má mærd í berum tóni, endurfarinn høfin há heim' eg er ad Fróni.
8. Heillastundin mærdar mátt mjøg og lindid brínir, kvedid undir ódarslátt Íslands-tindar mínir!
9. Stilli spjøllin stefja ská snilli øll má gagna, dilli fjøllin hljódum há hilli snjøllu bragna.
10. Veki ljódin þæga þjód þekju-flóda grunda; hreki ódum andarmód ekrum fróda punda.
11. Melasvana vafursver! vitur meiginnskaptur, gélur hani gauta, þér! gjælur feiginn aptur.

12. Í árdaga Grikkja-grund geimdi kosti bjarta borgin haga hér, þá stund helst var mikil Sparta.

13. Lasedemoníu á æzt var borgin fríða, kóngar sem med sæti þá sínu einatt príða.

14. So vér vekjum sagnatal, sikling hefur ramur Spørtu tekid tignar sal, Teleklur hét gramur.

15. Hanns þar skína hérud tjád, heppni flest er þeigin, þar Messína, listugt lád, liggur vestan meiginn.

16. Þar nú býr og þjóðafjøld' þégi búinn miður; Fintas stírir allri øld, Epýtanna niður.

17. Sparta-líður lætur frið leingi skjaldan vara, og því tíðum ergjur við á Messina skara.

18. Á Díønu hátíð hér hópar beggja þjóða, eptir vønum, safna sér saman, offur bjóða.

19. Ungir Spartar þróa þraut þá í þretta skini, flestir bjarta brúðar skraut báru, og leindu kini.

20. Høfðu fólin hjaltaljá hulinn undir skrúða; með var sjóli þeirra þá þakinn líni brúða.

21. Þegar vekja vín og dans og veitslu eigi rínga, leggja frekir blødum brands að brjóstum Messenínga.

22. Saklaus þjóðin svedjum brá, saungla hljóð í røndum, hina óðum henda á hnikars glóðabrøndum.

23. Meira særast svikarar, og sækja dauðann ramann, dreira færast føllin þar í flóa rauðann samann.

24. Allar hljóða hlífarnar, hallir blóð um lekur, gallast fljóða føtin þar, falla þjóðin tekur.

25. Messeníngar þróa þar þíngstu hljóðin víga, hildar springa spjarirnar, Spartar óðum hníga.

26. Þeir og sjóli þeirra snar þola verða skaðann, heljar bóli hjúpast þar, hildur ferðast þaðann.

27. Higgja Spartar hefndir á, hvønær góð sé tíðin, heiptin svarta þjáði þá þirsta í blóðug stríðin.

28. Spartar kéru að kóngum sér kífs í vinnu rauða Argiver og Arkader arfa kóngsins dauða.

29. Eúfas er um það bil, af þeim Messeníngum, kífs að þrasi konúngs til kosinn ráðum slíngum.

30. Halda ráð og hvetja lið hæztir kóngar sveita; þjóðir báðar búast við blóðugt stríð að þreita.

31. Þannig meinin hefja hljótt hlinir freju sorgar; Spartar eina aka nótt Amfeu til borgar.

32. Alla mirda, er eigi fá undan flía og snúa, Spartar hirda hlidin þá hallar, í sem búa.

33. Borgin hilji heiptarlid, þó hinum meigi sárna, hédan vilja hefja klid hamarsfleignu járna.

34. Bádum lídum hraustum hjá hel þó reina meigi, birjar strídid þúnga þá þessum upp frá deigi.

35. Auka verjur allar þá Eúfas sér lætur, bidur her um borgir sjá bædi dag og nætur.

36. Hilmir rór um hagi bjó, hermenn æfdi sína, fordast stóra slagi þó, stadi vardi fína.

37. Sona þremur árum á ødlíng varist gétur, loksins kémur þar ad þá þeingill silkíng setur.

38. Móti draga mundi sá meingi Sparta øllu, silkíng lagar þannig þá þó um stirjar vøllu;

39. Hann ad meigi hverfa frá, hvønær vill med sveina, físist eigi eggja sjá enn til þrautar reina.

40. Hanns er meiníng þessi þá, þegna ad stæla huga, og her sinn reina, hvørnig má hann vid Sparta duga.

41. Riddarar og léttfært lid laufa herdir vedur, ødlíng snar er ekki vid, enn víggarda hledur.

42. Sækja, verjast, þreita þrótt, þeir, sem eiga ad strída, og þeir berjast, uns ad nótt aptrar brinjur snída.

43. Varnargard ad morgni má Messeníngа finna, Spartar hardir honum á hvørgi meiga vinna.

44. Heim þeir rída, enn hafa þá hádung nía feingid; út so lída árid má, aptur tíast meingid.

45. Sparta slínga øldin á orustuvøllinn sókti, Messeníngа mildíng þá mál ad strída þókti.

46. Mætast bádir flokkar fast, fjøll og grundir stinja, þjódin hádi klótakast, klofin hrundi brinja.

47. Blódid vall, þar búka her benja sláoi grídur mannafallid undrum er eins á bádar sídur.

48. Daudum veldur varla ná vøllur módu rekka, raudu sveldist elfum á, ógna flódin drekka.

49. Einginn grundu Grikkja á, geirs í brádu mordum, orrustu mundi meiri enn þá, mønnum háda fordum.

50. Messenínga mildíng, hvar magnar þrætu lánga, í silkíngum føstum þar, fólkid lætur gánga.

51. Hvargi vinnur ødrum á, uns ad nóttin kémur, hristar linnir hrídum þá, hvíldir dróttin nemur.

52. Branda þúngu blódugt slag buldi lángar tídir, hildar súngu sérhvørn dag sálma strángir lídir.

53. Einginn hirdir akra sád, ánaud straung þó svídi, húngur firda hefur þjád helzt í laungu strídi.

54. Vakna flestu voda gjøld virda, er þjádust brøndum, kémur pest og eidir øld, eins í bádum løndum.

55. Þeir so ærir auka kíf, einkis gá um vídi, hvør sem hrærir limi og líf, liggja má í strídi.

56. Spartar reina rád um geim, raun sem þúnga báru; alla sveina senda heim, sem ad úngir váru.

57. Fjølga skildi fólki smá, á fund vid meiar leita, þeim sem vildu hvíla hjá, hlítir ei ad neita.

58. Þegar eru þúngud sprund, þorri skildi sveina finna her med sal í mund, og fadma hildi eina.

59. Ødum slíkir hvata heim, hlía vilja konum, enn hvørnig líkar þetta þeim, er þjóna skilmálonum?

60. Messenínga mildíng sá, er mentin góda pridir, sér ad þvíngar sóttin há sína þjód er strídir.

61. Siklíng frómur sinn med her frá sóknar tredur stígi, á Itómu-fjallid fer, og føst þar hledur vígi.

62. Vanda alla vega hann virkid gérda lætur; uppá fjallid einginn kann arka í sverda þrætur.

63. Vopnin slá og verja stad verir forma spjóta; af fjalli háu hinum ad herkju stormar þjóta.

64. Einginn fridar von sér veit, verjast rádagódir, heiptarsvidi hjørtun beit, hamast bádar þjódir.

## Idunnur Ríma.

Skothenda.

1. Epli følum Idunnar ódi medan slíka, og þér volur valskjálfar! vakid hjá oss líka.

2. Fram vér drøgum dimmu frá, í dini braga kláru, fornar søgur þjóda þá þærs' árdaga váru.

3. Gal þú, æsum gétinn hjá, gullinkambi kvedur! þar sem hvæsir hildur grá, herja vekjum fodur.

4. Vekjum svaninn sótraudann ad sætum heljar følum, garm med hanum gaulvanann gnípu firir sølum.

5. Alfa vekjum, vætti og troll, vals þar kvædi hrínum, so vér hrekjum óskøp øll út úr silsnum sínum.

6. Hér til fagna hjálpi mér, hvør ein mind sem lisir, þegar ragnarøkkur fer ríkin heima ífir.

7. Hlífa stinji hljódin þraung um hristar undra vøllinn, undir drinji orum saung ísum bundin fjøllin.

8. Vil eg heiri vætta hvad vessa smídi gjørfa, dilli eirum þjóda þad, sem þánka tídir ørfa.

9. Lesi gladur lagid máls, losi seldur þjóda, aldafadir ægirsbáls, sem indi veldur góda.

10. Létt má flitja ljóda dans lífs í væru standi, hér nú sit ad følum hanns á svella kjæru landi.

11. Blída gledin sínir sig, sæld ósmá þar lisir, heim eg kvediun hesi mig hafrøst bláa ífir.

12. Sverda þrasi þjádur, á, þeingill sóknar hardi Cúfas, og øldin kná, Istómu sig vardi.

13. Þjód, er kéndi síki og sorg, síst er fær ad idja, døglíng sendi í Delfisborg um Día svør ad bidja.

14. Sami heim og sendur var, særdur þó med brandi, kémur heim med herja svar heilagt, so mælandi:

15. "Offra meigid eina nótt undirheima díum hreinni "mei til heilla drótt, helzt ad vilja fríum.

16. "Verdi fljódum vilja stans, veltid þar um lódi; "eina þjódin Cýtanns af skal velja blódi.

17. Þetta hrædir horska þjóð, helzt þó Spýtana, allar mædur æfa hljóð, ef afkvæmi skal bana.

18. Loksins hún sem hitt vard á, hrædd med sínum fødur flídi núna fram ad lá, fljódid svelgdi lødur.

19. Vandi fremur verdur á, valid offur brestur; Aristódemur einn er þá Spýtanna mestur.

20. Dóttir frída døglíng á, dádum gjæddur slíngum, þessa bídur hetjan há til heilla Messeníngum.

21. "Skal Messína sízt," hann tér, "søkkva í "bilgjum nauda, þó konur hríni, og higgi sér ad hindra "meia dauda."

22. Hvínæst sjóli fagurt fljód firir leidir sveitir; nødru stóla niptin rjód Nikótela heitir.

23. Veit ei reinir vopna sá, er veldur meini drósa, mann í leini einn sér á edalsteina rósa.

24. Kémpan heitir Kleónnes, af kóngs er blódi djarfa, á med veitir vafur hlés vísid góda arfa.

25. Upp í leini ala þann ætlar fljódid snjalla únga sveininn Spýtann, Aristómenes kalla.

26. Honum sídar seigjum frá, so til hins má víkja, sørsa frída eiu á offurdaudi ad sikja.

27. Hennar madur heira fær, hvad hardur fadir vinnur, aungu hradur eirir, nær offurstad hann finnur.

28. Fær hann séda sørfagná selda offurpresti, þannig kvedur hetjan há: heir mig fadir vesti.

29. Hvílík undur einginn má eiga drótt í miuni, þú blódhundur! hefnist á hírri dóttur þinni.

30. Eigin kvinna mín er mei, mirda þú sem vonar, hefur svinna audarei einnig feingid sonar.

31. Presti hrindir hetjan frá, handlegg sprundid vefur, uppreidd' skindi eggtein blá ønnur mundin hefur.

32. Hilmir vedur honum mót, med hrotta fer hann snørum, og so kvedur: "lígi ljót lekur þér af vørum.
33. "Aldrei svanninn átti mann, eda lét sig gilja, "hún skal kanna heljarrann, ád hæztum goda vilja.
34. "Nær hún deir, til gjæfu gérd, gagna vel má "seggjum." Niflúng keirir nakid sverd Nikótelu ígégnum.
35. "Hlíf mér fadir!" hrópar fljód heljar stígum vidur, og med þad í eigid blód ønduð hnígur nidur.
36. Kleónnes nam þíngja þá þel í raunum sár-um, krípur hlés hjá neistaná náinn þvodi tárum.
37. Í því módir afreksmanns inn af gaungum sala kom med jódid kjæra hanns, kémpan straung réd tala.
38. "Barnsmordíngi! sjálfs hér sjá soninn dóttur "fríða, þú munt kíngi þrauta fá þíngstu vid ad strída.
39. "Þú hefur svikid Apoll á offri þínu ránga, "veit eg mikid þíngri þrá þiód mun ifir gánga."
40. Ødlíng birgdi andlitsbrá altarfótinn vidur, huga firdur hægdum þá hnígur sjóli nidur.
41. Hinn frá daudum núna ná nær ad rísa frekur, blódi rauda arma á únga soninn tekur.
42. Og vid bálid offur þar upp hann liptir sveini, þannig máli semur svar, sá er giptist meini.
43. "Ástar hreini arfi minn! er mér gaf hin kjæra, "heiptin ein skal huga þinn og hefnd ákafleg næra.
44. "Hér vid bjarta bál eg sver, og blóds þig hefndum "vígi, móti Spørtu mønnum ver máttarstór ad vígi.
45. "Þinn skal aldrei þánka frá þúngu hatri draga, "þú um kaldann þennann ná þeinkir alla daga."
46. Sveininn smái, er hæzta hrós heims mun fá í ritum, glæddi háu hvarma ljós, honum brá ad litum.
47. Fleira hérum hraustur beim heitir, sver og talar, sídan ber hann sveininn heim, sár þó skéri kvalar.

48. Lítil tíd hér lídur frá, lensu hrídir vekur, spjótin strídur spanna þá Spørtu lídur tekur.

49. Strídś á velli mætast menn, málmar gélla fara, dreira hellast elfur, enn øldin fellur snara.

50. Vopna harda þrumar þras, þømb um barda flígur, ødlíng bardur Eiífas egg til jardar hnígur.

51. Aristódemur eggjar lid oddum fremur beita, sjálfur nemur værd ei vid, valinn lemur heita.

52. Hlífar tætti hranaglans, hristar vættist feldur, menn ágjættu hreisti hanns helzt er mætti veldur.

53. Líkt og reida ljónid hann lidid meidir fremur, nú sem veidi næga fann, nístir, deidir, kremur.

54. Hilmir kíngi høggur med, hjálmar springa og rofna, sárt í hríngjum saungla réd, salbendíngar klofna.

55. Kóngi líkur Kleónnes klífur stíkur grana, ifir strikur oruslu nes, øldin síkist bana.

56. A hristar þíngum heiptar sár hárs eldíngar glædir, lá í díngjum daudur nár drjóna kríngum fædir.

57. Náa haugum háum á hilmir bauga tírinn sá med auga blídri brá blindar lauga fírinn.

58. Þeingill selur svørin grér sólar skeljúngsvalla, Nikótelu høfum hér hefnt dável ad kalla.

59. Astargjarnir armvefjast Epýtarnir bádir, létu hjarna harm kéfjast, hilla svarnar dádir.

60. Voveiflega vals um geim vøknar digur pláta, þeir med sigur halda heim, hvíldann vigur láta.

61. Þjódin sem í hristar ham heim nú kémur spaka, Aristódem ad einvalldsgram øllum semur taka.

62. Gánga stridin undra á, ángur nídir þjódir, lángar tídir fundi fá, fáuga lídir ódir.

# Þridja Ríma.

## Hálfdírt Stikluvik.

1. Einsog vedur ódust hér ifír svífur heima, ljód þau kvedum leingi vér, um landid hédan fleiti sér.

2. Í sølum háu hljóminn sinn heirast eirum láti, líka gái ad lædast inn lands í smáu hibílin.

3. Grábaks eingja eium hjá unun síni mjúka, skiljast einginn undan má ódar streingja leik ad fá.

4. Magna áa japa jørd jardar birgd í stirdann, hrugnis þráa hjarna svørd, hirdi skrá þá verdur giørd.

5. Tíri glóa áar á! einum reina bragur, hlír um snjóa háa lá, híra ró ad fá ef má.

6. Eins og greidast fjúki fis firir snørum vindi, skium eidi andþveitis edla meidi rínar blis.

7. Kalla gjædi mestu má, min þó dvíni æst, marþaks-svædi mættu á mindud kvædin tórad fá.

8. Þig eg eina *Idun* því átta sáttur hefi, mærdar grein so mætti ní minni sveina lifa í.

9. Eplum nær þú ódáinns einatt greinir minar *Gefion*! skjæra guda kins, grói hæru máttur vins.

10. Einnig forda ódi má aldur køldum tíla skrímnirs ordá skjøldur sá, er skálda þordum málin fá.

11. *Spartar* skjóma skilmadir skjótt med þróttinn nía mót *Itómu* mida sér, mikill hljómur vopna er.

12. Frá *Korintu* fer um lønd til filgdar gildur skari, lidid stinnt nam hafa í hønd heini þintann sáravønd.

13. Nøtra bríngur fjalla fá, ferjan þíngist aldar, moldin springur mørum frá, *Messeníngar* herinn sjá.

14. Aungu kvidu, unda ljá eiddir fridi skaka, fara nidur fjallid þá, fákum ridu grundir á.

15. Afþví sunna úr ægi rann á heidbláu hveli, gilta unnar glódin brann gjørd um þunna og stálbardann.

16. Þar sem hrinja heidgeislar og hvíta lita skildi, ljósin kinja kveiktu þar koparbrinjur raudgiltar.

17. Mundar skridu þundar þrá þúnga súngu hlífa, grundin ída undir má, undrum ridu fund ad há.

18. Landid, hædin, hamar stór hvinu, slinja, og grenja, sandar æda undan jór, er anda mædilega fór.

19. Haudur búngur hestar þá hófum grófum rísa, mara þúnga másì frá moldir springu í loftid há.

20. Eins og skrida úr fjalli fer fim í þrumu líki, sona idar saman her, sídan fridi lokid er.

21. Saman strikur vígs 'um vøll voldugur fjøldi þjóda, stálin blika í einu øll, undra mikil gjørast føll.

22. Hamar troll á hlífum gní holum bilja láta, sætir føllum sveitin því, sokkur vøllur blódi í.

23. Sár mergundar benin blés blódi mædilega, glóda þundar huíga blés, helst þar skundar Kleónnes.

24. Heila bíli hreisti-mann hiklaust sjúka lætur, álfarpílum aldjarfann eins og grílu sælast hann.

25. Flúdi þjódin, þar hann sinn þunnann spennir hrotta, knúdi ódur eggteininn, údi í blódi vøllurinn.

26. Eins á þíngi fellirs frár fleigdi svegdu benja, og mørgum stíngur meina-sár Messeninga kóngur hár.

27. Þar hann rídur, hristar hríd herdir sverda njørdum, niflúng strídur nás um víd, nidur snídur Sparta líd.

28. Vøllur flotinn allur er um í dimmu blódi, hvar andskoti hlífa fer, heila slot hann nidur ber.

29. Allt í kríngum dreira dí dunur í fróni slinja, fjallgirdíngum øllum í eggja klíngir hljómur því.

30. Spartar standa firna fast, fleina reina sína, enn virda anda í vitum brast, því vedríd brànda er so hvast.

31. Hella slædi holundar hroka lækir nidur, eru vædar valla þar volgu æda bilgjurnar.

32. Sátu í brekku hárri hjá hreßsar Messeninga konur þekkar, þær og smá þruskid rekka børnin sjá.

33. Aristómenes Epýtauns enn Kleónnis nidur fær nú sénann sverda dans, svolun lénar skapi hanns.

34. Vopna gnúnn heira þá hlustir best við una, vafurs día vørdur sá vetra tíu ritast þá.

35. Ekkért hræðist hetjan smá, hugur dug útvegar, einn hann læðist sljóðum frá, fífist æði hildar sjá.

36. Skapið honum víkja vann á vøllinn fullann blóði, náðíngiouum á sem ann eptir vonum klifrast hann.

37. Tók af einum dauðum dør dreingur og þúngann barða, fagurt skein í hendi hjør, hvarma treinast ljósin snør.

38. Eins og first nær úngir sjá øll sín gull og skrúða, blossa hristi hvarma sá, hjøltun kisti sverði á.

39. Fer að vaða víga dí volgu filginn dreingur, sig þar baðar allann í, aldrei staðar nemur því.

40. Hann sem bjarta hjørinn ber, hljóp óskipulega, einhvør Sparta sveininn sér, sem af hjarta kátur er.

41. Upp sá reiða vigur vann vænu að ræna lífi, hinn ei beið, enn henda kann hjørinn breiða gégnum þann.

42. Fláð so geiri firsta beim fékk hugrekkur dreingur, munu fleiri firir þeim frægðarmeiri kveðja heim.

43. Enn so hart að hinum þá hressir Messeníngar óðinns bjarta elda slá, allir Spartar snúa frá.

44. Leingur bíða þeigi þar þora Korintarar, undan híða hófamar; hérmeð stríði lokið var.

45. Epýtítinn íngsti þá, atadur ljótu blóði, firsk að slítur fleina þrá, føður nítann gétur sjá.

46. Arfann sína ama frí ærukjæri faðir vefur sína arma í, ástir hlína beggja því.

47. Samt skal snjalli sveinninn þá særin díru hefja hér, þar allir høldar sjá, hné sín falla í valnum á.

48. Það heitstreingir úngur enn, að við liðið Sparta heiptir leingi og hatur senn, þó heil forgeingi verølden.

49. Skíla vigri' í skeið á ní skjæðir klæða viðir, heim með sigri halda því hermannlegri filkíng í.

50. Þó óvørum heilla hnég hagur sigur feinginn, gjørdu kjørin geigvænleg goda svørin nádatreg.

51. Saman gildur safnast her, saudi leidir hvíta old, sem vildi offra hér og ædstann milda Júppíter.

52. Firr enn sverdi hreifa hér hrestir prestar meiga, saudir verda sjálf-dauder, sorgir herda þjódar fer.

53. Daprast lundin þjóda þrá, þrjóta heitin goda, fleiri undur urdu þá, er íllu mundu firir spá.

54. Huga selur hvør einn mann, hætta þókti vara, nisliúng kvelur neid og bann, Nikótelu dreimir hann.

55. Drísin blódi døglíngs er dóttir óttalega, og af módi sár á sér sínir slóda stjørnu ver.

56. Vopnin tekur vísi frá víf í stífum draumi, í hjúpi þekur hvítum þá, høfudid ekur krónu á.

57. Kónginn dreimir þannig þrátt, þrútinn sútum verdur, hanns til sveimar hvørja nátt hafnar eima lidin gátt.

58. Seingur mildíng grafar stig grátinn, snót þar liggur, ømun silgdi óskaplig, ógnum trildur mirdti sig.

59. Daginn eptir sveitir sjá sjóla hvíla á leidi, upp ad hefti honum þá í hjarta skéstur brandur lá.

60. Brendur er so budlúng lands, brátt vid dóttur sídu øtull gérir íta fanns øskukérid setja hanns.

61. Klaga þjódir kónglausar kjærann tærir ørfa, flestu gódu farid var, fólkid mód og trega bar.

## Fjórda Ríma.

Hálfdire Stikluvik.

1. Veldur feikna nógri neid og naudum þjóda mestu bísna og tákna trúin leid, til má reikna dæmin greid.

2. Hvada þjód sem hillir sér hjátrú mátalausa, heillum ódum eida fer, og øllum gódum kjorum ver.

3. Firir drauma og firna trú féllu Messeníngar, hvar em laumast hiin í bú, hagi auma vekur sú.

4. Drauga, anda og álfa sjá enn á þessum dogum voru landi virdar á, venju fjandinn æsir þá.

5. Þegar hrodi þikkur setst í þunnar rennur æda, draumar boda dreingjum mest, dauda, voda og slisin flest.

6. Ímsir sjá um háa heid hringi, ljós og sólir, túnglid spáir skada skeid, skatnar fá ej varast neid.

7. Stríd og dauda sínir sinn, sjáist þá og líka vestu nauda vísirinn, víga raudi branduripn.

8. Ljósa mindir himinns há hrædast so og dæma menn naudblindir moldu á, mestu sindir drígja þá!

9. Hvor so lærir odrum af, aukid rokum dæma, fram vid æra heimsku haf, hérum kjærast eirum skraf.

10. Auka kvída og ógnir sér, eida blídum dogum, vid lífid strída lasfhrædder, lasta og nída hvad tilber.

11. Miklu valdid hafa hér og hjátrú kvalda lídi Mr. galdramennirnir med sitt valda rúnakver.

12. Þjód um strindi þar sem kaus þessar kindur mirda, lemja vinda' úr laungu haus, látinskt minda vessaraus.

13. Ur grefum vekja vissinn mann, vesum frekum magna; nú þeim seka senda hann, sældum hrekur draugsi þann.

14. Þannig eidir ekkért ró aumum drauma vinum, vekur neid og varnar fró vantrú leida, hvar sem bjó.

15. Maktſo slotar Messenar med ónædi drauma, hugar þrotin þjódin var, þrótt ei nota kémpurnar.

16. Þeir tuttugu árum á ódinns hádu vedur, æstir dug, sem undra má, eiddir huga slía þá.

17. Kóngur eingin kosinn var kaldur veldi treigi, flestir dreingir slúdu þar um falda eingi sigmundar.

18. Þó vid hag ei haldid þann hetjur géta leingi, strídsins dagur dimmur rann, daudlegt slag er morgum vann.

19. Spartar slitjast fjallid á, fjoldans nitja hreisti, notra og titra neggin blá, nidurbritjast fólkid þá.

20. Í einum kransi Epýtar á þeim bláa tindi hlífa dansinn hádu þar, hnígin landsins flokkur var.

21. Eins og jardar bálin blá brjótast heit um tinda, lítt þó skardi loga þrá, leingi hardir móti slá.

22. Þar eldínga ógnum sló ifir gnæfanlega, fjalla bringur firtar ró falla og springa um sídir þó.

23. Epýtarnir einsog þeir, enn þó varnir hvefsi, gríms þar hjarna glódir meir, gnístust bardir nidur ad leir.

24. Hetjur gódar heljar bann hljóta módir lída, nidur ódum álfa rann adal-blódid flóa vann.

25. Kémpan eina Kleónnes, af konúngs væna blódi, gétur fleina fordast vés med frídann svein um víganes.

26. Þar sem grundin gróin er græn í skjóli dala, í Gerislund med svein hann fer, sér og mundi leina hér.

27. Þjód sem flúdi fjallid blá, og fundin mundi verda, Spartar knúdu í þrældóm þá, þrjóta lúdum frelsi má.

28. Med ákafa þjáníng þar þessir Messeníngar máttu grafa markirnar, minst þó hafa kornskurdar.

29. Klædum svørtum allir á eiga þeir ad sirgja kónga Spørtu, er falla frá, silgja hjørtun valla þá.

30. Nokkrir slía heiptar hønd, og hæli í dølum finna, adrir fríast eins vid grønd, og Arkadíu tóku lønd.

31. Epýtinn med úngann son ádur tjádum lundi, í dølum inni á kjalars kon' klerkinn finnur Pandion.

32. Þar um hríd hann þádi ró þegni higgnum medur; skømmu sídar, særdur þó sorga strídi þúngu, dó.

33. Aristómenes einn er þá Epýtanna á lífi, eignast menja únga gná iggur fenju mjølva sá.

34. Freíu sorgar álfur á vid idun klæda nidja; nefnist Gorgur sveinninn sá, søknud borga vina má.

35. Hann med presti fóstur fær, frædi gód so nemi, skapid best í gódum grær, gétur flestar digdir mær.

36. Opt þó bidur Epýtinn, ad hinn fródi klerkur fræda idinn æ hvurt sinn æsi nid til hefnda sinn.

37. Lætur rjódi sveinninn sér síst um þetta finnast, hetjumód og hreisti ber, enn hjartans gódur líka er.

38. Epýtinn sem ekki má eitrad hatur svæfa, líka svinna sistir á, sáda linna únga gná.

39. Agnagóra eian hét elda veldis kvala, svanninn rór um fíla flet fríðleik stórum hrósa lét.

40. Eignast hvíta vísið vann valinn kjóla grímur, Evergítas heitir hann, hreistin níta stíður þann.

41. Þó um stundir sveitin svinn sitji að nítum kjørum, skjaldan undi Epýtinn, æsku mundi harminn sinn.

42. Veit hann Sparta valdi í vini sína og landa undir kvarta oki, því ángurs hjartað vefja skí.

43. Full þrjátíu og átta ár, eptir taptann slaginn, þessa líir þrældóms fár þrautum í og vanda stár.

44. Hafa alið um þá stund ítar í þrauta standi hetju val með harða mund, hefna kvala fýsir lund.

45. Spørtu gramur annar er Anaxander frægi, Anaxdamur einnig hér amasamur stírir her.

46. Rikis vóru ráðstjórar rétt þar settir líka, mjøg að fóru málum þar maktar-stórir Efórar.

47. Stjórn við undið þjóðar þá þannig mundi vera; láta undan múgnum má maktin stundum kónga há.

48. Efóranna valdið var vafið losi þjóða. Nú skal anna aptur svar um Epýtann er harma bar.

49. Hafði að geima hetju dáð hugaður víga stjóri, géðs í heimi huldi ráð, hafa heimar þannig skráð.

50. Polinnmóður þrautum í, þrár í fári sverða, þróttargóður, felmturs-frí, fremar hróður lísir því.

51. Messeníngar undra hann á hanns trúa. hreisti, vildu slíngir velja þann viðir hrínga foríngjann.

52. Hefnda mundi heitin þrá hrugnis sagna geimir, þessu undi einu sá eggja fund ef hefja má.

53. Fýsist hugur einatt á að erta Sparta líði, er fertugur orðinn þá, abl og dug ei bresta má.

54. Gorgur arfi hraustur hanns, hægur, fagur sjóna, hafði djarfur huga manns, harla þarfur skúrum brands.

55. Manndáð flesta mundi þá, mildu filgdi gédi, vill því besta liósemd ljá líð, ef bresta nokkud sá.
56. Evergítas, Epýtanns ádur skrádur mágur, bar til hlítar hreisti manns, enn heiptin bítur skapid hanns.
57. Vægdum aungum eirdi sá, eda rádum sinti, sverda þraungu eingjum á úlfi svaungum líkjast má.
58. Um þad tølum, Epýtinn einn um þenna tíma hvarf úr sølum harmþrútinn hers í følun kémpa stinn.
59. Alfur frú ása frids eirir kir ei leingur, vid Arkadía leitar lids, lángar því til járna klids.
60. Kémpu ríka hillir her, hrós er kjósa nádi, géta líka gjørum vér, Gorgur víkur heiman sér.
61. Taigétu tindum á tírinn mírar loga leingi fetar frægur þá fagrann gétur dal ad sjá.

## Fimta Ríma.

### Ferskeitt.

1. Fordum borda bríkur smá blídar nádu spirja: hér ef fer ad hefja skrá, hvornig viltu birja?
2. Ef líst eg festa mundi máls máské first í vetur, bádu tródur eima áls ofur lítid betur.
3. Sá eg þá ad hringa hlíd helst med augum snørum smáu báfríd brosin blíd bjó sér til á vorum.
4. Mælid sælu mjúka bjó mér óvorum núna, lindis indi líf og ró lísti af neistum brúna.
5. Rétti netta hrundin hønd, hjá sér baud ad sitja, þetta létti í loftid ønd, ljod eg nádi flitja.
6. Víd mig bad ad þrátta um fátt þá mín vina góda, sídan kvad eg smátt og smátt smámunina ljóda.
7. Kvad eg, hljód þó dofni dimm, dikti gódu þíódum, kvad eg ljód í løndum fimm, loga flóda slódum.
8. Eg hefi bálad brúda hól um bord hjá skála ósum, og uppmálad marga sól, sem meidma strjálar ljósum.
9. Brúdum fjádum budum vér bragi skráda ad þídast, þá valdrádi vinur! þér versin kvádum sídast.
10. Skildu finn þér! einum á efni spinna ljóda, einusinni ef eg má eun, samt minnist sljóda.

11. Gorgur sorga geingur frí grænar merkur ifir, dalinn valinn ofan í, indi hugar lifir.

12. Lítur nítur fleina freir, þá fetar gøtu landa, kofa ofar léttum leir lágann þarna standa.

13. Líka ríkur seggur sá, sól þar geisla flitur hvala bala blóma gná, bjørk hún undir situr.

14. Strjálar sólin eldi á andlit sprundi fríða, mála stóla nødru ná nú til mundi hlída.

15. Ljósblá drósar augun á enni renna hvíta, sjós sem ljós um hvirfil há hárid er ad líta.

16. Mindar indi mejian há mækja þundi fljótum, linda rindi liljur smá lifnudu undir fótum.

17. Dúfu ljúfa sólin sá og síndist rodna vidur, hikar hvik ad siga í sjá sína gøtu nidur.

18. Hrósi drós sem hugnast þjód, hreint eg frá því seigi, ljósa ósa lísa slód, lángt er frá eg meigi!

19. Undrun bundinn úngur sveinn ala tal ei vogar, fund á skundar huga hreinn hafnar géfnar loga.

20. Standa randa freir og fljód first og þøgdu bædi, kinnum hlinnir rósin rjód, sem renni sól ad grædi.

21. Meinum leina á lukku tíd ljúf, þó bindist svara, í einu reina bædi blíd brosin minda vara.

22. Módur fljóda blómanns brátt ber ad þeirra fundi, kalla snjalla geisla gátt grindar landa mundi.

23. Gérir híra vísa val vid þau rædu slíka, fer med víra-sól í sal og svidrir klæda líka.

24. Frétta nettann sídan svein sørfa spurdi fridur, rétt um þetta þuldi grein þegn í svørum blídur.

25. Ber fram rara rétta gnógt rjóda fljódsins módur, er nú þar um næstu nótt nílar bála rjódur.

26. Aldinn baldur sverda sér sofa í kofa dreíngur, blindur linda álfur er, ellin hrellir leingur.

27. Dagur fagur indi ól, øld sem veldur gagni, glódraud slód um glíu sól giltum bilti vagni.

28. Sorgur morgni fagna fer og fundum blundar varna, því nú día sólu sér sína skína stjarna.

29. Aldinn baldur þorna þar þrekinn finnur dreingur, spurdi hærdann hvør hann var, hinn þá innir leingur.

30. "Spørtu virta ættar eg Obalur ad heiti fann hér annann vænni veg, so værda í kirdum neiti."

31. "Dóttur grætta eg eina á Arkibømu frída, eldri hildi hrínga þá, er hetjan lítur blída."

32. "Hin sú væna er hennar jód, hér sémgérir þjóna, hírleg skata hilja slód heitir nít Teóna."

33. "Strídid fødur hennar hér hrakti frekt úr landi, vænar þjóna ad vistum mér valinn hal firgjandi."

34. "Meinin reinum margføld vér, má eg nú ei leingur kveini leina, enn híri hér, hvørnin sem til geingur."

35. "Raunir einar hriggja hal, heppni þrítur snara, þetta eitt þér þulid skal, þarmed máttu fara."

36. Kvedur sídan hetjan hrein hal, enn felur trega, filgir silgju eia ein úngum dreing á vega.

37. Settust léttum lundi í linda grund og dreingur, rædu bædi birja því, barda spurdi feingur:

38. "Seig þú veiga sólin fríd sem ad fremur minnumst mér hvørt vera viltu blíd, vid ef tídar finnumst."

39. "Þér eg kjøri í heimi hjá helst af øllum vera, rádin gód þó finnum fá forløg milli bera."

40. "Ber eg í leini þánka þann, þér sem greini skin um, þig eg eina elska kann, enn ekki neina af hinum."

41. Brúna núna báli ad hal besta lísti meia, hún vid búna halsinns tal hrest þa fístist seigja:

42. "Hjá þér þrái hvørt eitt sinn hér ad vera líka, ann eg manni, eins þad finn, eigi sá eg slíka."

43. "Ver þú hér og vísi hjá vistir kjóstu binda, þér skal hverjum harmi þá hrinda strøndin linda."

44. Svara gérir nítur: "nej! nú vid frú má skilja, fara kéri eg þó ei eptir skøptum vilja."

45. Krefur dúfan hadda hlí: hrind þú vanda grøndum, vefur ljúfann innan í indis handa bøndum.

46. Þannig hann og hrínga gná heiti og ástir binda, kóna honum ein sú á idun vera linda.

47. Nista risti sína senn sédur kvedur dreingur, kisti þirstur ásta enn audarslód og geingur.

48. Klifrar ifir hamra háls hetjan teit ódfluga, sif þó lifi eima áls ein í leinum huga.

49. Fótum kátur kletta rann, kreikar á gøtum hálum, fødur gladann heima hann hitti ad náttar málum.

50. Hefur æfur Epýtinn um adstod feingid heiti, nær sem færir flokkinn hinn fram á hildar leiti.

51. Brátt af mátti mælir hann: "munum fleina skaka, þegar veg um refa rann rekkar híngad taka."

52. "Nær sem færi flokkur sá fer oss hér til stodar, hædum glædast eldar á, øld þad hildi bodar."

53. "Vér ad Deru vikjum stad, og verdum ferdum hrada, bál um hóla þétir þad, þjódin hlídir glada."

54. "Þeir sem eira þrældóm vid, þetta líka skilja, þángad stránga þeisir lid þá med feiginns vilja."

55. "O! ad þróist hefndin heit, so héraf gérist søgur, flói um gróin fótbíts reit fjanda unda løgur."

56. "Hinn so inna higginn fer, hlinur funa rína, nær sem hrærist hjørinn ber, hreisti reini eg mína."

57. Midt um náttar þetta þel, þó ei nái gruna, spretta hátt vid himinhvel á hædum glódir funa.

58. Furdar hardann eldum á Epýtann so brádum, bádir leid á hóla há halda, sildir dádum.

59. Finna svinnir elda að Evergítas kinda, foríngin snari þá við það þorði orðin minda:

60. "Hvaða skaða þróar þú?" þá kom hinn að ræðum: "hraða á stað vér nennum nú, nóg er kindt af glæðum."

61. "Veit eg gjætir vítað mig, vinur! á laun eg hefi sveitum mætu mars á stig merki hildar géfið."

62. "En mér brennur brjósti í bál sem ei má sløkna, fir í berum geira gní granir á sverðum vøkna."

63. Á fótum níta meina mátt Messeninga vera, skiótir slíta ferð í nátt flestir upp til Dera.

64. Skaða kvað það kóngum jafn klóta vitur níðir, að ei gladir ala hrafn Arkadíu líðir.

65. Fáa má nú finna þjóð fleins í storminn ramann, þó skal gróa og hildur hljóð hefja bráðum saman.

66. Teitur veit eg Telekur tekur þrekinn skjóma og máttar þéttur Mantiklur; mun so hrína róma.

67. Herinn ber nú óðum að og áður tjáða dreingi, hver að Deru heldur stað, hraðar snúðugt meingi.

68. Á tíma naumum þángað þá þjóðin reið með kjæti, gríma laumast gømul má gild frá hildi úr sæti.

## Sjøtta Ríma.

### Hríngheuda.

1. Valtírs glóðin hitnar hér hvarg' í móði linum; hrafninn óðinns orga fer ifir blóðvellinum.

2. Eg er við þar dørfa dun um dreira niðar voginn, hugar iðar ímindun, eins og sviðris loginn.

3. Fljóti um hristar heita sal helblinds listar mjøður, þars í bistum blaða-val blóðuga hristum fjoður.

4. Pér geirskøgul, hrind og hrist! hermið søgu klára: hvør í sløgum fleina first féll í øgur sára.

5. Søunu stríði feigið frá síðhøtts hríða kvinnur! hvør af líðum hopar frá, og hvør um síðir vinnur.

6. Géfið á því grein og skil, hvør geimi nái bleika þér! sem sánd sjálfar til sverða gráu leika.

7. Hafs álfroda hlinur kjær! er hræddist voda aldri, vid skulum troda vígi nær vals ad boda hjaldri.

8. Þá úr unnar blódi blá blikar sunna hærri, geislar runnu um lønd og lá, ljósum brunna skjærri.

9. Hópar drjúgir hilja slód, heill þad múgur verdur; hjálmar. sjúga sólarblód og silfur bljúgar gérdur.

10. Skíin dróust hægt í hlé á hlírnirs frjóu vøllum; vopnin glóa glimjande í geisla-síóarføllum.

11. Þetta hljód um herinn fer, hrópa þjódir bistar: "heitu blódi hellum vér í hefndar glódir þirstar!"

12. Undra hái Epýtinn eggjum bláu veldur, skodar fráa flokkinn sinn, first er þá óhreldur.

13. Skildi veldur hetju hønd og hildar feldi' óríra, huldi eldur ránar rønd rodann seldi díra.

14. Málmi hvítum innan á ørn þar líta mundi, land um spítir loga sá af láturs-gníta fundi.

15. Bardinn voldu brúnir í blómann øldu vefur, allur fjøldinn þekkir því þann sem skjøldinn hefur.

16. Geinginn hann ad erfdum er Epýtanna leingi, vígs þar anna vinnu fer, vid hann kannast meingi.

17. Everkgitas áfram vad, ord þau nítur seigir: "Sparta lít eg leidum ad lands um flíta veigi."

18. "Bít nú gódi brandur mér, blad so rjódi leingi, medan blód og hold eg hér af heiptar þjódum fleingi."

19. Eins og svarta elid fer á því bjarta heidi, dregst ad Sparta dimmur her, dunar í hjarta reidi.

20. Jørdin gnúdist, gnata bjørg, gnípu búdir nøtra, sem þá lúdann ljósu hørg Loka knúdu í fjøtra.

21. Herinn dregur saman sig so á vegum sléttum, eins og þegar afskaplig alda' ad vegur klettum.

22. Þá á hjartar hafi er herinn snart ad geinginn, ód fram djarft og ord þau téreinn af Sparta meingi:

23. "Þrældóms hundar hvargi þér hlída mundud skip-um, fram á grundu silkid her flúnir undan svipum".

24. Evergítas heirir hvad hinn óníti seigir, sér hann flítir framan ad fólskum ríta sveigir.

25. Hvørmum fleigir eldi af óstjórnlegi halur, þannig hneigir hetjan skraf, í hønd var dreiginn falur.

26. "Far þú hédan hels í ból, hatri lédur glanni!" og á medan svidris sól sveifla réd ad manni.

27. Hjálminn milur hrotta blad, hinn sig til bjó ferda, hausinn skilur eggin ad allt ad bili herda.

28. Boga hræra hetjurnar, hremsur særa fremur, herinn æri allur þar í skotfæri kémur.

29. Færi laungu líka á lídir slaungum henda, undrum saung í þinlum þá, þvita straungu senda.

30. Eins og vindar hreki hríd um hnikars linda eingi, ørfar blinda augu líd, sem álmar hrinda streingi.

31. Spjótum henda hamóder hlinir brendu sørfa; sídan lendir saman her, seggir benda hjørfa.

32. Hettir sídir, hríngjur blá, hinir frídu skildir út af kvída emja þá og øskra grídar trildir.

33. Trøllin hvína víga vot, á vøllum tína grida, føllin sína feigdar rot, fiøllin hrína og ida.

34. Ita knáu ædafor út nam slá í blødrur, sugu hráu svedju spor sárs helbláar nødrur.

35. Brandar rífa úr búkum líf, blód um drífur vega, medan hlíf vid hlum og kíf hljódar gífurlega.

36. Mørgum nidur biltir búk blóds ad idu kaldri; enn Sparta lid vid fellirs fjúk úr filkíng ridar aldri.

37. Mækja þíngi midur á Messeníngar eira, sínum hríng ei haldid fá, heiptin þvíngar meira.

38. Spartar sláir fagna hvar fastir stá og verjast, hinar sjá þeir hetjurnar í hópum smáum berjast.

39. Samt þeim dreirdi seggjum hjá, sókn ei heirdu lina, því án eirdar áfram þá ergian keirdi hina.

40. Adsókn drígir Spýtinn med áttatíu dreingi, midjann í sér herinn hinn hels um díin þreingir.

41. Eins er sá og hafskip há, er hrindir ákaft leidi, sundur slái bilgjur blá, um brjóstin lá þó freidi.

42. Sér fram ridur siglu troll í sjáfar hvidum brádum, sundur idu fleingir foll, freidir ad hlidum bádum.

43. Alteins vedur Spýtinn, áfram medur brandi, nidur tredur herinn hinn, sem hafskip eda fjandi.

44. Þjód um haudur magnast mein, mækja audun frægi hvar sem raudann fer med flein, filgdi daudinn slagi.

45. Allan halinn badar blód bistur valinn tredur, eins og hvalur er af mód ála sal'um vedur.

46. Filgir Gorgur honum hart hellir korgi af blódi; féll á torgi fó:kid snart, fagnar borginmódi.

47. Lidid rírir leingi sá, líkur Týr ad huga, hildar mírum hamast á, hveim sem slír má duga.

48. Evergítas eirdi síst, eggjar bíta halnum, holdid slítur heli níst, hvar í lítur valnum.

49. Hvør sem mæra hetjan nær, helju fær ad lída, hjálma slær og høfud flær, hann er ær ad strída.

50. Þeir sem undan Spýtanns eggjum mundu sveigja, eiga fund vid hjørinn hanns, hér er stund ad deija.

51. Undan rekur allann her, eins og dreki fari, blódsinns leka lækirner, ljóns á frekum mari.

52. Panormur og Fintas fer og Fanur, hvur med ædi, Gonippur, sem øtull er, eggjar dur af brædi.

53. Í filkíngar=armi þeir ødrum þvínga meingi, hlífar springa, herinn deir, hildur síngur leingi.

54. Mørgum svidu sárin skár', svedju idar slagur, fleingist nidur nárin hrár, nú er midur dagur.

55. Öllum mestur Spýtinn íta lesti mæra, lætur hvesta hrottann sinn heliu gésti færa.

56. Finnur Sparta foríngjann, fleininn bjarta reidir, gégnum hjarta hremmir þann, hrika í parta sneidir.

57. Spartar hriggir herrans ná höndla diggir vildu, loga iggjar eldar þá, aptur sliggist hildur.

58. Hrídin benja hellist þar, hremsur og génjur nauda, késjur grenja kóffveittar kjafta þenja rauda.

59. Evergítas grunar hvad geira slíti önnum, sér hann brítur braut þar ad, biltir ítum hrönnum.

60. "Kóngleg ornin vel þér ver!" vann hinn kjörni "mæla kreistu börn í klóm á þér kvala gjörnu þræla."

61. Sídan herda allir ad ædstu sverda tírar, Spartar verda ad víkja úr stad, víga ferdast mírar.

62. Eins og hérar hundum frá hvata géra fráann, fimir èru fótum á, flír nú hver sem má hann.

## Sjöunda Ríma.

### Skáhendt úrkast.

1. Bráda leiti svipals svala á sóknar þíngi, og herteiti hlés ártala háttu singi.

2. Þó ad fjötri frostin lá med fanna drögum, emji og nötri hamrar há' af hræsvelgs slögum.

3. Þó ad sveimi ógnum ódi æpirs klidur og mannheima búum bjódi bísnum vidur.

4. Þó ad gjósti rán og rindur reigin sjóla og helfrjósti huldar kindur hamra stóla.

5. Þó ad ragnarökkur magni raunir goda, bid eg sagna flokkum fagni freir álfroda!

6. Bid eg gódu hjörtun hlíni hal og konum þar sem ljóda lestur síni lands búunum.

7. Þótt ákvæda þrótt um strindi þverri hinum, kved eg bædi kiæti og indi ad kiærum vinum.

8. Kved eg reid svo blídkast brá med bragdid góda, kved eg leida þogn og þrá úr þeli fljóda.

9. Lidna kjæti kved eg heim, hún kémur aptur, sá oss lætur lands á geimi lióða kraptur.

10. Hinir fást vid fólk í hólum fælu-hrika; enn eg vil ást hiá seima sólum síngja kvika.

11. Hinir drauga magna mest þar mærdir kénna; enn eg vil auga blídka best und' brúnum kvenna.

12. Vid þá ró má einnig una eigi midur, nú gunn-þróar gauti funa! gølum kvidur.

13. Runnu idur æda þar í ofur fljótum, alþakidur vøllur var af vígum ljótum.

14. Borginmódar beina fá á búka haugum, teiga blód og naga ná med nídings augum.

15. Þar's óhæfur hlakkar leikur hefur stadid, fagra ræfur fær nárenkur firnum hladid.

15. Messeníngar mínúng láta mírdann skeidum hrópid síngja sigur káta á sóknar leidum.

17. Saungva venur sveitin skjær, þeir so úr skéra; "Arist'menur kóngur kjær skal kosinn vera."

18. Aptur spjallar Epýtinn: "mig ei skal hilla firr enn allra frelsi vinn af flokknum ílla."

19. "Mér til heidurs hrotta eigi hef eg dreigid, idar neid ef minka meigi mundi þeigid."

20. "Messeuínga, blóds þó bekki bjódi hildi, hers foríngi enn hilmir ekki heita vildi."

21. Gorgur finnur fødur sínn og fer þeim svørum: "ebl ei minnur arfa þinn ad audnu kjørum."

22. "Mér eg fest hef fadir! sprund med farfann bjarta, er þó besta audar hrund af ættum Sparta."

23. "Vona eg ei þú meinir mér þá meju blída, so skal feiginn filgia þér nær físir strída."

24. Ofur reidist Epýtinn og aptur segir: "hví vilt neida huga minn á heilla deigi."

25. "Ei gullhlada ódinns rjódi elda sveigir! af þrá hatada þjódar blódi þú fær eigi."

26. "Sá eg slínga þróttinn þinn þá þreittir hjørinn, Messeninga mildíng stinni muntu kjørinn."

27. "Þú skalt hata hvørs manns blóð af haudri Sparta, því um fata þessa slóð ei þorir kvarta."

28. "Gorgur þagdi þetta sinn þó þreingi pína, aptur sagdi Epýtinn við íta sína.

29. "Hédan slíti' eg ferd í nátt um síla verin, Evergitas! annast mátt því allann herinn."

30. Sá kvad nei, og so réd skrafa saddur dáda: "eg vil eigi hernum hafa hót að ráda."

31. "Því ef herinn hlídnast mér, eg heim til Sparta strax nú fer og fleininn ber ad fanta hjarta."

32. "Vilji er minn, so hefndum hinna hvati firda, aungvu sinna og ekkért vinna utan mirda."

33. Brosti snjall að hjali hanns sá hjørinn skékur, skjøldinn fallna foríngjanns hinn frækni tekur.

34. Gjæddur hreisti hefnda þúngu hótin kvedur, ord þau reist á randar búngu rúnum medur:

35. "Arist'menes orustu dísum af herfángi skjøldinn lénar víga vís so vinsemd fángi."

36. Um sig klædi af einum ná hann einnig vefur, burt hinn skjædi skundar þá og skjøldinn hefur.

37. Brátt til Sparta borgar ferí brjost' óragur, nóttin svarta ifir er, enn úti dagur.

38. Dróttin var í dísa sal og døglíngarnir, seggir þar nú semja tal um sókn og varnir.

39. Inn þar geingur Epýtinn, þó undri seggi, skjøldinn heingir hetja svinn á háum veggi.

40. Ut so fer, hann ei vill sinna ødrum rædum, leinir sér í hópi hinna hulinn klædum.

41. Prestar sjá á skjøldinn skína og skoda rúnir, lesið fá og hófu að hrína hrædslu knúnir:

42. "Hér munu leidir leinást menn af lídi hinna, god eru reid, so grøndin tvenn vér gétum finna."

43. Anaxander ødlíng sér hvad íta grætti stírir branda sterkur tér: "oss stansa mætti."

44. "Ofælinn er Epýtinn, enngi skal skjøldinn nú ad sinni nidur svinna nema øldin."

45. Alþídan sem óttinn grætti æpir meira, Epýtann þad ærid kjætti á ad heita.

46. Heim hann snír og hitti brædur, hérfra kéndi, þá alskír um gladheim glædur gilltar sendi.

47. Allur herinn hlídnast tali halsins frída, kríngum Deru víggard valinn vann ad smída.

48. Þar skal bída þjódin frí er þægast semur uns ad lídur Arkadíu einnig kémur.

49. Hjá Amfeu Anaxander ødlíng Sparta lætur hlé og virdar vandir vigri bjarta.

50. Var til Deru vegur þraungur, vada þánga voga sér ei vidir straungu vánga hánga.

51. Þjód bardaga skáld eitt skildi er skikkast Spørtum ódi laga og ótta vildi eida hjørtum.

52. Tírin slaungu Tirtæur hinn trausti heitir, af hanns saung þar íta hvur burt ótta þeitir.

53. Strídskvedlíngar herda hjørtu heiptar meingi, skáldid síngur sigur Spørtu og sældir leingi.

54. O þú módir allra kvæda Idun frída! þinn skal hródur heim umflæda hédan vída.

55. Þú inntekur alla sansa indi og fridi, skógar vekur dír ad dansa og dofna vidi.

56. Hvør þitt vald ad verdúng metur vakni kvidur, mánann kalda á kvøldin gétur kvedid nidur.

57. Orfear vid indis hljód, sem orkti, vída hættu snara flugi flód og fóru ad hlída!

58. Villudír um veigi gróna víkna máttu, urðu hír og tøm við tóna tigna háttu.

59. Af þér kref eg Idun! hins, þó irki miður, að fræða stef ei forgéfins eg fáist viður.

60. Láttu hrinda hugar mæði hætti ljóða, dragðu inði gleði og gjæði að glaumi hljóða.

## Attunda Ríma.

### Hálfdírt stuðlafall.

1. Vorið blíða vetrar stríðu daga lætur hrakta, enn løndin þá líkhams nakta prýði sjá.

2. Líkt og sá er lífi frá skal dæma, huglaus drjúpa fønnin fer í filsnum djúpum leinir sér.

3. Ut úr bøndum elfur høndur rétta, klaka víðjum velta frá veiginn riðja forna þá.

4. Upp sig þenja, urra og grenja reiðar bláu svella brjóstin á bísnum skélla vatna þá.

5. Þær saklausar þegar fraus og sníði, máttu bindast bólum, í bann að finda feingu því.

6. Uns að skorum, ísa gjørsamlega frá sér hrundið hafa þær, hljóðin mundu lífna skjær.

7. Hæverskiega hafs að vegum líða, faðma nakið fiska lið sem fossa tvakið unir við.

8. Bláar, hvítar, blóði spíta foldar, bøkkum grænu blika á blómstur vænu grøsin þá.

9. Enn dimmar tíðum dísir hríða og veðra spøkum níðast elfum á, aptur stríða verður þá.

10. Og hvað líkar eru slíkar tíðir høgum líða, heill og þrá, sem hrekjast tíðar straumi á!

11. Þó að vorið valði oru frelsi, hérvið nemur hvørt eitt sinn, haustið kémur og veturinn.

12. Lá í Deru leingi herin meður Arist'menes, um þá tíð únga venur menn við stríð.

13. Hann frá Argos hermenn marga þáði eins Tegeu og Elis frá, að honum ségu flokkar þá.

14. Þar hann bíður þó og stríð ei hefur Evergítas grimmur því gremjast hlítur brjósti í.

15. Hann þad veit ad halda socitir Sparta Diskúranna dag hátíd*), dirfist hann því birja stríd.

16. Gónipp vidur gímu svidur japa fær ad ræda: silg þú mér, first ei hrædist skapid þér.

17. Gjørum prída guda tídir Sparta, hvítum rída hestum skal med hita vídis búnum sal.

18. Búníng Día og bestu tígin hafa skulum, snart so skundum þá skartid Sparta til ad sjá.

19. Gudi sína glódum rínar búna okkur halda þrælar þá og þúsundfalda lotníng tjá.

20. Enn þá skal bleita blódi heita fleina, adsókn veita og mirda mest menn, og þreita hreisti best.

21. Þjód án vopna þar um opna sali skulum hída fjørid frá, so furdi vídann heiminn á.

22. Gónippur nam geira durinn svara: hvør fádæmi higgur þú, heilla slæm mun ferdin sú.

23. Gudinn reidast gabbi leida pínu, ef vid tveir vid heilann her hreifum geir, þad midur fer.

24. Evergítas aptur slítir máli: einn skal draga eggtein blá, ædrast ragur heima má.

25. Hinn þá tér: eg hlít med þér ad fara á náftranda heilann her og hvørn þú fjanda otar mér!

26. Bádir tíast búníng Día háa, rída húmi hálfu í á herkju rúmi sleipnirs því.

27: Sparta herinn hitta géra bádir, jórum slíta ekru á, Evergítas hrópar þá:

28. "Gudi idar gjætid þid ad virda," fleigdist nidur andlit á audmjúkt lid í flokkum þá.

---

*) Diskúrarnir vóru tveir af gudum þeirra Sparta, hét annar Kastor hinn Pollux; þeir høfdu lagvopn af gulli í høndum í gilltum herklædum og ridu snjóhvítum hestum.

29. Evergítas gégnum íta hrædda lætur bíta bakið hjør, blóði spíta ljóma før.

30. Dauðinn fer í far á hverju lagi, slítir sér nú vinnu við vopna grér sem hatar frið.

31. Undir sprœna, eggjar ræna lífi, eru á grænu eingi þar andlátsbænir þarflegar.

32. Hlinir ilja hlakkar gilja maka, viður skilja verøld hvar vænstu þilja bænirnar.

33. So hamóð og so helblóðug rimma so ómóð af ítum tveim aldrei stóð í vorum heim.

34. Evergítas géfur slítirs bana, hefur lítið eiru á, ef að bíta geirin má.

35. Gónipps brandur benjum landið þvoði, þjóð biðjandi bana fær, til beggja handa kappinn slær.

36. Þannig vaða þeir og hlaða niður í valraðir veikum líð, verður skaða mikil hríð.

37. Anaxander á þann vanda lítur, bað upp standa og brinjast drótt, báða fjanda høndla skjótt.

38. Altíaður eggjar naðinn breiða riður að þeim reina flein, ræsir kvað við meina grein:

39. "Ikkur blæði báðum hræðilega, ró og gjæðum glatið hér guði hæðið sjálfa þér."

40. Hinir svara: "sjá þú hari Sparta! Messenarar þrældóms þrá þína fara senn að smá."

41. Horfnir friði hlinir iðu mána burtu riðu blóðs af mó, að báðum hliðum vega þó.

42. Fram sér riðja filking miðja gégnum, Sparta herinn hrekja frá, heim til Deru um síðir ná.

43. Anaxander undrast branda þóra, þegar landi auðu á óteljandi dauða sá.

44. Sikling ríkur so að víkur máli: "undur slík eg aldrei sá okkur strikur gjæfan frá."

45. Hvad sem sídast høgum lídur þjóda, blódugt strídid verda vill og vopna hrídin dimm og íll.

46. Sjóli vitur sendi rit af hendi Efóranna ædstu til, á því hann bad géra skil:

47. Hvørt ad dreingjum hliti leingur strída hina vid: sú hetja snør helst til fridar lagdi svør.

48. Efórarnir íllsku svarnir heima budlúng leingja bidja stríd, so bugad feingi hinna líd.

49. Frá Korintu flokka gint þeir hafa, og Anaxander senda lid, sem skal branda stíra klid.

50. Epýtinn med íta sinna trausti ærid vinna á medan má, mordvopnin þeir smída blá.

51. Einatt bræda eldar skjæda málma, skedjar emja undrum hvar ítar lemja hlífarnar.

52. Vid þá daudans dimmu nauda hljóma æsir sveina Epýtinn, eggjar reina og herklædin.

53. Arid lídur allt, enn sídan lætur herinn allann hertíast hann er valla þróttinn brast.

54. Þeir Elíar, Arkadíar líka, hardann því ei huga brast, hanns í tíum járnvefjast.

55. Frá Stómu sjalli skjóma hlinir nú til rómu draga djarft, dinur hljómur sverda snart.

56. Anaxanders sveitir landid þekja, móti tredur hetjan hér, hildur kveda brádum fer.

57. Aeinni hæd med herinn skjæda bídur øtull fædir freka sá, fjølnirs glædum logar á.

58. Epýtinn med allan hinna skara firir nedan hædir hér haldast réd og búinn er.

59. Sléttir vóru vellir stórir þadra, um sem fóru flokkar þá og slæda sjórinn benja á.

60. Finnast þannig flokkar manna beggja, hvør á annann hreita vann hrópi' og banni mest sem kann.

61. Þar sem æda eptir flædi vona arna bædi og hrafna hér, í heidu slæda lopti sér.

62. Þeirra saungur þikir aungvum prídi, barka svaungum orga í, imja laungum fjøllin því.

63. Hel hin bláa, barnid þráa loka, digur, há og djøfullig dregur þá á vøllinn sig.

64. Í hnipri situr hún og litum skipti, elda flitur augum frá, ærid biturleg ad sjá.

65. Ad hinni sídu hildur rídur gamla ekki fríd, enn stolt og stór, í stakki sídum raudum fór.

66. Þeirra milli þjódin stillir beggja, vøllinn filla filkíngar, med fasi íllu margur var.

## Níunda Ríma.

Aldýr skammhenda.

1. Þar hugreifur vopnum veifa vals um dreifar hér, reiginsleifar hjaldri hreifa, hljód ei deifast mér.

2. Þig skal bidja bragar gidja! bæsíng stidja máls, medan þridja eldar idja á hervidjum stáls.

3. Fram þar dreira føllin keira og fellur meira lid, lát mig heira gøllin geira glimja eiru vid.

4. Vid skal leita brøgum breita bestum hneita rjód, skémtan neita vildi veita vals um heita slód.

5. Þar hardsnúna þjód vígbúna þeitir brúna fir; hátt-inn rúna níti núna nødru dúna tír!

6. Vard nú þraung á vøllum laungu vid í draungum small Sparta straungu' er eirdu aungu orustu saungur gall.

7. Saman dragna sjótir bragna so ad slagnum þar, fødurs magna loga lagna lóma vagninn bar.

8. Eins og heidi um sig breidi el med reidarsløg, ljósum eidi, og á því skeidi eldum freidi mjøg.

9. Hræfarglódum ælir ódum, eird um slódir dvín, uns med hljódum, þæg ei þjódum, þruman móda hrín.

10. Þannig vanda þrumu randa þjóð hefjandi var njóta handa benda branda bifast landið þar.

11. Høggin skjalla á hjarnar stalla, hjálmar gjalla við, hrottar galla hotta og skalla hlítur falla lið.

12. Késju breiða rekkar reiða, rauð því freiðir lá, skjøldu sneiða og brinju breiða, búkar meiðast þá.

13. Öld ósæla egg má stæla, æðar fælast sár, blóði dæla einatt æla, af því kjælist nár.

14. Þar á hríngjum hrotti síngur hátt við kíngi raust, af fjalla díngjum hljóða hríngur hlustir kríngum braust.

15. Hólar reina að kalla og kveina kvíða meini því, hrína steinar, vellir veina votir leinum í.

16. Dinja hljóðin drepvargs glóðin dæsti af móði hlí, dánar þjóðin, døpur slóðin druknar blóði í.

17. Evergítas eggjar bíta unda spíta ver, lætur íta aldri slíta óður ríta grér.

18. Vørn filkíngu vinstri slíngur veita' óringa fekk; skjómi síngur búka bíngur biltist kríngum rekk.

19. Sunnan handar hópi vanda hlífði um branda nes, kilfu grandar kvistum randa, kémpan Androkles.

20. Ei hann síður íta sníður eggjar níðir fleins, þjóðin stríða þar hann ríður þjáðist kvíða eins.

21. Hár Epýti her með flíti hélt hinn níti í mið, mølfar ríti, mjøg þó síti, meingið lítur við.

22. Áfram veður eggjum meður, ekkért skéður tóm, náum hleður hvar hann treður, hlífa kveður róm.

23. Gorgur fríði fram í stríði føður ríður hjá, fíls á víði feldi líði feigðar svíður þrá.

24. Fram með brandi eins og andi Anaxander fer, eysið þandi óstillandi øld að grandi ber.

25. Epýtinn, sem vígin vinnur, vísi svinna leit, kallar linna stóla stinnur stafur hinn um reit.

26. "Kom þú híngad kémpan slínga! kvóta síngjum brag, ef hug ei þvíngar hrædslan rínga um hrístar þíng í dag."

27. Hinn ei kémur, lidid lemur, lekur fremur blód, hugann gremur, hjørinn nemur hold, og kremur þjód.

28. Messeninga hædstann hrínga herjan þvíngar skap, menn óringa mundi stínga, mergd silkíngar drap.

29. Braut sér nidur ber og ridur berserks vidur mód, britjar lid á bádar hlidur, blódsins idur vód.

30. Nær med snilli nítum stillir nema vill med geir, frægra milli flokkur stillir, frá so villast þeir.

31. Ei ad sinni ángur minni Epýtinn var þá, ser hinn stinni silkíng hinni fremur vinna á.

32. Hrofnar plata hildar fata, hverfur skata líf, ædar fnata eiddar bata, eggjar gnata hlíf.

33. Magnár kvída múgi lída mikil hríd er gjørd, þar randgrídar rennur slída raud um vída jørd.

34. Díngjur búka landi lúka í líking hnúka tel, elfur sjúku æda rjúka upp um mjúka hvel.

35. Sumir standa, adrir anda út dejandi sál, vod hjaranda glæstri granda glød stíganda bál.

36. Síst nam kvarta kóngur Sparta kordann bjarta sá, lét í parta høggva hjarta og hrafna svarta fá.

37. Eggjum skéra víga verinn virda gérir sá, isir ber hann høfud herinn, hrædist hver hann sá.

38. Hvar hinn frái hlífa ljái hvergi smáum brá, bragnar láu likir strái ládi náir á.

39. Njótum branda af hreisti handa hetjan Androkles, lætur granda grídi randa, glumdi landa fles.

40. Arkadíar firstir flía fara gníinn stáls, vann því nía vørn ad dría vingþór díabáls.

41. Hlini kallar handar mjalla hann og spjallar þá: "lát oss alla firri falla en flía hjalli á."

42. Eblir síðan eiðir skíða ógna hríð að líð, Spartar kvíða og bana bíða, burt þar flíðu um síð.

43. Þeirra milding máttar trildi menn aðskilda sá, stansa vildi her í hildi, hjör og skildi brá.

44. Afram rekur fólkið frekur, fleininn skékur blá, blóðið lekur, hina hrekur hreisti frekur sá.

45. Epýtítinn fékk með slíti flótta íta sjá, þángað brítur braut hinn níti, benja spítist lá.

46. Hetjan niður lemur liðið, lét nú friðar bið, undir iðar sóknar sviðið sára riðin við.

47. Bragnar hrundu á hála grundu, hel um undir bjó; eigin mundu um þá stundu einn hann hundrað sló.

48. Hætt nam standa í hreti randa hetjan Androkles, þó vill fjanda þorra granda, púngum anda blés.

49. Skjómar klíngja, spjörin springa, Spartar slíngir þá slóu hríng um hal óringa hristar þíngi á.

50. Hríngins móður rífur rjóður randar glóða bands, fram þá vóð að frægðum góður Fintas bróðir hanns.

51. Báðir herða hríðir sverða, hinum skérða líf, rifna gérðar viður verða, vóx helgérðar kíf.

52. Dreira ljótu føllin fljóta firir klóta nað, Spartar fóta fimni njóta, flitjast hljóta úr stað.

53. Enn við ríta el óníta Evergítas slóð, skildi hvíta brandar bíta, blóð um slítur lóð.

54. Fram um veigi enn aptur eigi einatt teigir ferð, þjóð er fleigin, þá og sleigin, prítur meigíngérð.

55. Þannig er um allann herinn æríst hver sem má, undaskérinn auka gérir æða bera lá.

56. Þannig voldu ægis øldur og margfoldu rið, storma fjøld' i kafi køldu kífa og nøldra við.

57. Veðrin iða á allar hliðar, allteins riðin há, vega snið ei meiga miða, minnst þó friði ná.

58. Þannig geingur þjáðu meingi þrúðar eingjaverk, hvørn sem sleingir hjørsi leingi hildur spreingir sterk.

59. Nokkrir færast fram og særa firða kjæra minnst, sumir ærast, hæli hræðast, hríð ófær ei vinnst.

60. Sjór af blóði um sveitta flóði sigtírs rjóðu hrund, drukna þjóðir þars' í móði þessi vóðu sund.

61. Loptið stiknar, þíngist, þiknar; þjóðin viknar stríð, himinn bliknar, hauður kiknar; hversur líknar tíð.

62. Hér má blæða um búka skjæða blóð á svæði víð, nær mun æða ofur skjæða enda mæðu hríð.

## Tíunda Ríma.

Sléttubønd.

1. Grundar bráins grundir enn grunda sagnar kviður, undrast þá að undu menn unda sjóinn viður.

2. Svoddan tíðum sá eg snið, sólum eðalsteina skélfíng bíður blíðum við blóði okkar sveina.

3. Meiðist fíngur minsti vor, mjög sem ekki skaðar, koma híngað þá ei þor þær hafa blessaðar.

4. Þaðan stefna og hafa hljóð, hræðast dropa rauða, að ei nefni' eg nasa blóð, næst sem geingur dauða.

5. Samt hið hrærða hjarta þá hættu næst sér tekur, nær hinn særði æsku á árum blóði lekur.

6. Ungar gjarnan géfa tár, sem géta lækníng vera, kéllíngarnar kanské skár kvíðann meigi bera.

7. Ó! þér hjartans indin góð! sem allra sál tilbiður, þessi Sparta ljótu ljóð leinast skulu iður.

8. Hann sem eigi hræðast kann herjan, túna ormá! vildi' eg feiginn þægi þann þátt, sem núna forma.

9. Veiga gná þó vinskapsfull við mig géríst ræðin, frið að sjá sem fegurst gull, fær hún ekki kvæðin.

10. Þeigi bjóða bauga-lín bragi má eg snauða, øll eru blóðug blæðin min bleitt í valnum rauða.

11. Líkt og vindur loga slær lands um veigi auða, allar kindur slæmir sjær, fá þær ella dauða.

12. Loginn hái um landið fer, limið smáa brennur, stansar þá og þokar sér þar sem áin rennur.

13. Þvi ad hana ei funi fær fjörfur stígid ifir, enn allt til bana annad slær, sem ána kríngum lifir.

14. Þannig ædir Eyýtinn, allt til dauda lemur, undan hrædist ekki hinn Anaxander fremur.

15. Dreifdist stóra slagid þá, stála hregg þó vari, berjast fór í flokkum smá frægdar seggja skari.

16. Þar sem Anaxander stód, æstist hildur mesta fírir hánum hrøkkur þjód, hríngjur og skildir bresta.

17. Elur varga Eyýtinn, eggjar beima lía, Sorg hann bjarga bidur sinn brøgnum þeim er flía.

18. Hlinur vendi fridur fés í silkíng sunnanverda, enn þar stendur Androkles, abl ei kunni skérda.

19. Hinir þreingja halnum ad, hann í þundar rokki þokast leingi lét úr stad, sem ljón í hunda flokki.

20. Kilfu vætir kémpan gód, kaudar sæta skada, hann um lætur lík og blód lúdar fætur vada.

21. Hausar brotna, hlífarnar hrinja sundur flokkum, blódi flotna frónid var falid undir skrokkum.

22. Enn til hlidar Eyýtinn eins nam vinnu þróa, braut sér ridur breida inn, baldur finnur glóa.

23. Arkadíum aptur þá Androkles nam safna, Spartar nía sælu fá, fleina vési hafna.

24. Upp um hædir hrøkkur lid, hafid, æda vedur ódinns glædur vaka vid, vígum skjædu medur.

25. Anaxander einnig þá undan hlítur leita, sinna landa sídast frá sennu lítur hneita.

26. Gorgur lemur flóttann frár, fleini' ad látum beitir, enn þó fremur aungum sár álfur plátu veitir.

27. Evergítas allt hvad má ærdur mirda nádi, blódid flítur honum hjá, heiptin stirda þjádi.

28. Honum bædi bítur fleinn, og bresta þrótt ei mátti, sá á hædir elta einn allann flóttann knátti.

29. Þannig linnir laufa skúr, lofa blídir fridinn, þó er minni ekki úr ógna hrídin lidin.

30. Heim til Spørtu flóttinn fer, fólk og kvinnur gráta, allra hjørtu óttinn ber, og nú minna láta.

31. Efóranna ædstu til Anaxander kémur, spirja vann: hvørt víga spil vilji ad standi fremur.

32. Fer í hópa fólk og lid, flesta neidir kvídi, allir hrópa hátt um frid, ad hætta leidu strídi.

33. Epýtinn er ódur mann og hanns stinna meingi, aungvum vinna audnast hann, þó eggjum sinni leingi.

34. Einum presti Efórar Epýtanum beida ad slitja besta fridar svar og fjandskaps vana eida.

35. Olíugrein í hendi hann hefur eina fríða, fræda reinir feta vann fram, þó leíni kvída.

36. Ota vinnur iljum hann, af so drígist fridur, uns hann finnur Epýtann Andaníu vidur.

37. Odum frétti ødlíngur orku mest sem hefur: "seig oss rétta søgu hvør sendt þig prestur hefur."

38. Hinn ei sídur svørum vid síndist búinn vera: "Sparta bídur fólkid frid fullann nú ad géra."

39. "Þeir volduguvaldstjórar vilja mein so enda, í einum huga allir þar olíugrein þér senda."

40. Gorgur bidur: "fadir! fá fólki nædid blída, géfdu frid og sjálfur sjá síst er gjædi ad strída."

41. "Nú med sígur heidur há hættum strídid vidur, skulum vigur skeidum ljá, ské má sídar midur."

42. Prestur líka Pandíon prúdur nádi beida fridinn ríka siklíngs son sveitum þjádum greida.

43. Andsvar hart gaf Epýtinn: "ekki um þad eg sæti, utan Spartar allann sinn ójafnadinn bæti."

44. Klerkur stundi þúngann þá: "þessu má ei heita" sídan skundar følur frá sleigir bláu skeita.

45. Spörtu búa hittir hann, helst í grun kvad berast: "aungvann trúann frid eg fann fleira mun í skérast."

46. Fram þá sté med stirjar-saung stírir hríngja frekur hann Tirteur, ljódin laung lídum síngja tekur.

47. Kvæda hópar hreſsa líd, herdir þjódin muna, allir hrópa hátt um stríd, hanns þar ljódin duna.

48. Fjærri ótta Eyýtinn eggja stjái hradar, fer um nótt med flokkinn sinn Fare þá til stadar.

49. Mølfa hlidin, hefja stríd, hollur fridur kvedur, Spartar vid sér halda um hríd heiptar svida medur.

50. Evergítas aptan frá ad med slíti kémur, lætur bíta lid sem strá laufann níta fremur.

51. Vildi kvinnum einnig ad ærast harma frekur, Gorgur svinnur sá á þad, segg um arminn tekur.

52. Meinti hrinda hetju frá hinn med brandi stinnum, hann ad binda hótar þá hal, ef grandi kvinnum.

53. Sparta meingi slídi frá, fleina linir skaka, frænings eingi og fljódin þá féngu hinir taka.

54. Sídan draga higgja heim hamra lánga stígi, hermenn slaga hér ad þeim, hreisa strángir vígi.

55. Anaxander er nú þar, otar brandi frekur, hamdís grandid herinn bar, sem hamralandid þekur.

56. Gorgur flítir hálfum her heim med fánga trega, Eyýtítinn eptir fer ekki lánga vega.

57. Gorgur first því mæta má muggu randa frekur, sveitin bist um hamra há hrista branda tekur.

58. Margir falla í feigdar haf fírir gapi sverda, draungum fjalla ofan af ímsir falla verda.

59. Hellir dreira holundin hremsu vidur gjálfur, enn nú heirist Eyýtinn ad þeim rída sjálfur.

60. Fólkid kjæra fagnar þá fundi nærir blída, þegar skjæra skjøldinn sjá og skjóma stærir frída.

61. Vard nú ædi voda hríd veitir glæda sunda, undrum blæda lætur líd, lamast tiædi þundar.

62. Milli kletta hárra hann heiptar mettur trega, stillir þétt og margann mann meidir gleitilega.

63. Anaxander ødlíng þá Spýtanu hamfara óstillandi ordinn sá eida manna skara.

64. Hann á móti hraustum rann, hreisir ljótri skeinu, gat á fótinn hitta hann hal med spjóti einu.

65. Féll til sorgar sinni þjód særdur meidir spánga, kóngi Gorgur ad nú ód ættar reidir tánga.

66. Hjálminn klífur þúnga því þar med skjøldinn rífur, kóngur svífur aungvit í ad so fjøldinn drífur.

67. Spartar nádu þeingli þá þar í stinnu kísi, hinir gádu frelsad fá foríngja sinn med lísi.

68. Vard nú hildur vonar rír, vopnin leita skeida, hér vid skildi herinn snír hvør til sinna leida.

69. Messenarar herfáng hitt heim úr branda stíu høfdu þar sem hríd var stitt hradt til Andaníu.

## Ellefta Ríma.

### Valhendíng.

1. Furda mætti frægdir hinna firri manna, framaverkum fleina runna fráføgurnar lísa kunna.

2. Líka naut þá sérhvør seggja sinnar hreisti, frægir menn med fleina glæsta foríngjanum stódu næsta.

3. Hvør sem hafdi mannvit mest og mátt í strídi hetjubrjóst og hugargiædi, hilmir var og foríngi bædi.

4. Fóru þeir í silkíngunum framan-verdum hermenn sína herrar fordum høfdu lítt ad skjaldar spordum.

5. Létu ekki lútast þeir vid litla skeinu, hnígu first vid fundinn bana farma tírar birdar grana.

6. Nú er kominn allur annar aldarháttur, þar sem menn um metnad strída og menju kvarnar sádid frída.

7. Ættir, gunst og audur nú, enn ekki hreisti, hersforíngja hlífum glæsta og hendíngarnar velja næsta.

8. Sumir aldrei sáu blóð um sína daga, enn sinna kónga silfri lóga, og sjást að bera prýði nóga.

9. Eptir sækja einatt níann ødlast frama, enn ef fjendur að þeim sveima, eru stundum fáir heima.

10. Og ef þá í orustu slær með elda harða skílast þeir í flokki firða, enn fólkið eptir bendíng mirða.

11. Hreisti menn ef hrósa ekki hefðar kjørum, varnarlaust að vígum orum verða að falla í sínum sporum.

12. Allt skal gjøra eldi með enn ekki sverðum, hvort nú betur fer enn forðum fæ eg ekki mér að orðum.

13. Þér skal edla aldagautur elda voga! flitja sagnir firri daga fús ef hlíðir tónum braga.

14. Eyýtinn með fatla fót af fellirs sporum, nú með sínum hrínga hárum heilann mánuð lá í sárum.

15. Loksins þegar fer á fót og fillast kraptar, kémpan þá í huga heiptar hetjur kallar járni sveiptar:

16. "Spartar skulu frétta fá eg fari úr rúmi, veri allir hræddir heima, enn hina bið eg með oss sveima."

17. Allir taka undir það hann óska vildi, síðan burt um hæðir halda hlinir dúka føðurs-alda.

18. Eínginn vissi Arist'menar ætlan nía firr enn menn af hæðum háu húsin Sparta borgar sáu.

19. Androkles og Gorgur gjørdu greinir smíða: "ef oss til Spørtu ællar leiða íllann munum taka greiða."

20. "Okkur láttu ef þú villt með eggjum deiða, enn að velferð lands og líða leika sér mun miður hlíða."

21. Aptur snír þá Eyýtinn með íllu geði, kémur þá til Karí staðar, þar konur og mejar leika glaðar.

22. Héldu Spartar hátíð þar með hljóð og dansa, mejar báru blóma kransa, enn bráðum verða leik að stansa.

23. Messeníngar æða inn og eggjar reina, Spartar stóðu vopna vana, verða því að líða bana.

24. Foríngjinn lét fólkið allt til fánga taka, hjá þeim Gorgur vinnur vaka, vill ei láta fljóðin saka.

25. Hermennirnir hugdu sér til heilla bóta, jómfrúanna í nádum njóta, næra mundu fisni ljóta.

26. Gorgur øll hin faungnu fljód med frægdum vardi, sverdi med hinn hugar hardi hermenn sína frá þeim bardi.

27. Bidur sídann fødur, frídum siltur þánka, fljódin blíd sér frí ad skeinkja, firr enn lídur nái kreinkja.

28. Brosti hinn, og soninn sinn þær so bad taka, frejum svinnu fíngra jaka frelsun vinnur hetjan spaka.

29. Veik med þeim á vega heim og vid þær skildi gautur seima, gjald ei vildi géfa beim er fólkid skildi.

30. Prúdir banda þakka brandi þussa ilja, trigda vanda talid þilja, tárfellandi vid hann skilja.

31. Aptur snéri hetjan heim, enn heldur sídar einu sinni upp um heidar, eru hønum kunnar leidar.

32. Teónu hann triggva fann, því tendrast gledi, fagnar hønum falda audur, enn fadir hennar var nú daudur.

33. Aptur bædi ástamálin endurnía, nádi þar um nótt ad búa nítur gautur snjáa hnúa.

34. Logar varma ljósid hvarma, linda freija mundi arma' ad manni sveigja, mein og harmar verda ad deija.

35. Koss nam bjóda baugarjód med bestu gjædum, titrar blód í beggja ædum, brjóstin gódu hrinda mædum.

36. Pad er undur ei þó fundur irdi blídur þegar stundin laung um lídur, ljúfust mundi bauga frídur.

37. Pær sem eru í allri veru edlis gódar, gjædi hér oss himnesk bjóda, hrekja géra lundu móda.

38. Gódlind mei vill gédi feigin guma svala, hrekur sleiginn hugar kala, um hinar eigi má eg tala.

39. Gorgur medan gisting fær hjá gérdi klúta, Eyþýtinn er úti ad leita abla sér med flokkinn teita.

40. Hjá Egelíu eitt er hof þar inni halda kon=

ur Sparta og mejar mildar messu tíd og saungva snildar.

41. Svørum þar Epýtinn med íta fáa kémur inn, enn konur æja kvæda hljód og bænir lægja.

42. Ødlíngs Sparta Anaxanders ektakvinna var og hér med solli svanna, sér hún ferdir óvinanna.

43. Drottníng vegur einum ad med offurknísi, sellur þessi firir vísi fullkomlega rændur lísi.

44. Þá til hinna hrópar inna handar fanna: "ó! nú vinnid orku sanna edla kvinnur Sparta manna!"

45. "Komum háa hrika' ad slá med hnífum goda! okkar háu hørgar stoda hreisti þá í slíkum voda."

46. Fuma vísin frægda stíf til fóta og handa med offurknífa og eldibranda. eingum hlífa er firir standa.

47. Epýtann slíkt undra vann þó ægi' ei honum, seggjum bannar samt ad vonum sverd ad spanna móti konum.

48. Þær hamódar ausa blódi, eidist fridur, þá med hljódum hildíng bidur, hnífa sljódin leggi nidur.

49. Enn þær stínga álfa hrínga ei ad sídur, hníga slíngur hlítur lídur, hárs glædínga sporid svídur.

50. Ein sem fer med koparkér og krapti beitir, ad svardar kéri siklíngs þeitir, sárid bera aungvit veitir.

51. Gjøra sídan harda hríd ad hinum sprakkar, undan lídir fáir flakka, frelsis tídir gudum þakka.

52. Binda svannar svimadann úr sárri hildi kappann þann er þróttur filgdi, þekkist hann á sínum skildi.

53. Ad gauti ríta harda hníta hnúta spruadin, á hann bítur ama stundin, Epýtitinn vaknar bundinn.

54. Er hann þá sem úlfur sá er Æsir bundu, og Tír af háum tugdi mundu, titrar grá heipt í lundi.

55. Af stálbláum augum þá hann elda glædir, bundinn sá því herja hrædir, heiptar þrá um brjóstid flædir.

56. Eins það sinn var Spýtinn og eirdi valla, hraustar kvinnur hrædast allar hardar tinnur svardar fjalla.

57. Bragníng sídan bundinn eptir brúdir skilja, ad morgni veitir hita hilja heim til Spørtu bera vilja.

58. Hørmulega heiptin bítur hirdir skatna, bardist um því brjóst nam hitna, enn bøndin meiga ekki slitna.

59. Inn þar kémur ædsta prestsins ektakvinna, þundur sólar þorskaranna, þessi heirir ordin svanna.

60. "Spýti! þér ærna skuld eg á ad gjalda, helst því Gorgur hjarta mildi hlífa minni dóttur vildi."

61. "Komin hún til Karí var med konum hinum, út var leist af arfa þínum, óvirdíngarláus úr pínum."

62. "Vegna hanns þín bøndin burt eg bídst ad skéra, þó til meigi þrauta bera, þetta fær nú so ad vera."

63. Leisti sídan gullhríngsgná med gédi hlíu hrosta fødur hafnar glíu, heim sá gékk til Andaníu.

64. Fagna lídir leistum vídir láar funa, harma stríd þó hrjái muna, heima' um tíd hann náir una.

## Tólfta Ríma.

### Sagraljód.

1. Hvad sem lídur, hvad sem skér, hvørnig sem ad lukkan snír, kveda tídir háttu hér hvalastóla mána tír!

2. Mitt er lindid létta, þó lukkan vilji skamta mjótt, eins og vindar velta sjó, vidkvæmt, gladt og ætíd rótt.

3. Hvad er ad láta þánka þjást, þó ábjáti eitthvad smátt? hvad er ad gráta aud og ást? allt í máta fellur bátt.

4. Hvad er ad finda harma geim hvad er ad blinda eigin brá? þó ad vindar hristi heim, hægja skindilega má.

5. Hvørgi rísa harmur skal, happa prísa dægur má, medan vís í minnis sal mér er dísin kvæda hjá.

6. O! ad líka ljóda rír lestur slíkur mætti þá, edla síkja elda tír! alteins ríka skémtun ljá.

7. Einsog dali lífgar lands lid med válid dogain sitt, bid eg svali huga hanns hrafna galid óma mitt.

8. Ef ad kinni eitthvort sinn ama vinnast gríbar þeir, kraptinn sinni mærdar minn marar svinni ljóma reir!
9. Því skal munur medan hljód mín alkunnu síngur skír, þeim eg unni irkja ljód ála sunnu farmatír.
10. Hródur vanda hvad sem skér hugar spjellin stillir brín, olln landi Isa hér ódar spjellin dilli mín.

11. Einusinni Epýtinn, eptir þessa svadilfør, Sorg nam finna sonin sinn, sona vekur málin snør:
12. "Þú skalt vita vegna þín, sem velgjørnínga stundar best, burtu slitid bøndin mín brúda hefur valid mest."
13. "Mest til hjarta mér þá gékk, míns nær firir sonar dád, eg af Sparta frúnni fékk fjøtra lausn og hjálpar rád."
14. "Gjalda æru atvik há eg ad nokkru vildi þér; þú skalt kjæru þína fá þegar strídi lokid er."
15. "Því forláta þér nú skal, þó ad ástar festid bønd, og því játa ad eignist hal eiarbanda logaströnd."
16. "Því til Sparta þú mátt nú þreita ferd med Pandíon, fridinn bjarta falar þú, fleina skal á hrídum lon."
17. "Olíugrein í høndum hátt hraustir berid þeirra til, enn ekki nein þú ókjør mátt undirgángast, þad áskil."
18. Sorgur kjætist gódur þá, gjædin næra hugarfar, fødur mætann fadmar sá, og flitur kjærar þakkirnar.
19. Fagnar þjód sem frétta má fridar gódu tilbodin, Sorgur tród so gørpum frá græna lód og klerkurinn.
20. Ferdast dreingir daga þrjá, dírsta finna Sparta borg, fagnar meingid frægum þá, slíkkjast vinna kríngum Sorg.
21. Fanna lófa frídum vid filgir þjód á torgid hrest, og vid Jóvis altarid ítrum bjóda sitja gést.
22. Koma hér og kjósa svør, kóngarnir og Efórar; fridar ber so bodin rør, brodda grér í máli snar.
23. "Vér tilbjódum fullann frid, falli módur nidur slétt, fagnar þjódin frelsi vid, firna blódi høfum skvett."

24. "Sigri haldid høfum vér, hrakist aldrei vígi frá, því í valdi okkar er eggja kalda leingja þrá."

25. "Bodum idar eptir þó, er med fridar málum bar, festum grid og fulla ró, falli nidur sakirnar."

26. "Eg er nidur Spýtans, ekki midur stíri her, mig því stidur maktin hanns, málin fridar binda hér."

27. Hætti fródur slitja svar, fridinn bjóda þannig vann, fólkid hljódum fagnadar fleina rjódi gégna vann.

28. Kirkju háa koma í kóngar þá og Efórar, rádin gá ad grunda ní greipar snjáa hlinir þar.

29. Efórarnir ætla þad: Spýtinn í vanda sníst, first so gjarnan frid um bad fjærri sínu skapi víst.

30. Anaxander íta vid upp so kvedur málin há: "gódir landar! gjørum frid, guda skédur vilji þá."

31. "Ei mun mædast Spýtinn enn ad strída, þad er víst, firir gjæda soninn sinn sættir bídur þad mér líst."

32. Anaxdamur orku smár ordum nádi géra skil: "því vill gramur gjæfu hár grida ráda núna til?"

33. "Eg hefi bundid ástartal Arkadía kónginn vid, hann um grundir hjálpa skal hanns, so slíi undan lid."

34. "Arkadíar einir nú Spýtanum veita lid, enn Elíar, þad veitst þú, þreita rama fjendur vid."

35. "Því ef tapar þessum her, þegar sveigjum vopnin grá, okkur skapleg skømm þad er skildum eigi sigri ná."

36. Anaxander aptur tér: "eins af því eg mæli frid, sídur fjandleg svikin mér sómir dría kappann vid."

37. Efórana alla þá Anaxdamur fær med sér; stríd ad vana vilja há, enn vitur gramur þagna fer.

38. Ødlíng sláí út nú fer, og nam Sorgi skíra frá: "strídid þráa veljum vér, og vorrar borgar heidri ná."

39. Flestir bragnar følna; þá fólid géfur svarid hitt. Sorgur sagnir gjørdi tjá: "galid tel eg rádid þitt!"

40. "Þú ert einn, enn aungvir vér, eggja hríd sem leingja kís, seggja neinn ei svarar þér, sæmd af strídi lítil rís."

41. "Komi ifir einann þig allt þad blód, sem hellist nú, þó á lifir lasta stig, litlu gódu fagnar þú."

42. Sídan branda þagnar þór, þadan skunda slítir sér,; Anaxander eptir fór, og vid þundinn seima tér:

43. "Vorum meijum gafstu grid, gjalda feiginn vil eg þér, þremur treju þrúdum vid þú so meigir taka hér."

44. "Eru þinnar þjódar sljód þau er minni hendi sel," suna svinnum slóda rjód, fagnar hinn og þakkar vel.

45. "Anaxander!" úngur tér" af því grand eg hugar líd, þad er vandi okkur er enn til handa búid strid."

46. "Sú mun tídin þæga þó, þeingill! sídar skína mér, ad þér bíd eg ást og ró, uns nær strídid lánga þver."

47. Hraustar skiljast hetjur ad, hjortun þjádi meina sár, ekki diljast þeir vid þad, þókti bádum hrjóta tár.

48. Gorgur finnur fodur sinn, fréttir innir sannar þá, brann í skinni heiptar hinn, hetju kinna farfa brá.

49. Hetjan talar heilla snør: "þó holda kvalid dvíni fjør, Sparta skal med skjøld og hjør, skreita val firir þessi svør."

50. "Onnur hníga þjódin þrá, þessi hlítur brádum nú, tønnur víga grenji grá', garpar níti rádin trú."

51. "Arkadium berum bod, brádum drígja okkar her, svarnir því oss sína slod, sára dí þar øllum vér."

52. Sendir fara þángad þá, þessum bera erindid; hinir svara hértil já, hirda sér ei neina bid.

53. Alla tíar Epýtinn, øld er valda sverdi má, heiptar drigist hugurinn, hlinum skjalda øllum þá.

54. Ut ad hída í sára sjó, sérhvør lída búinn er, verda ad bída vorsins þó, vetrar tíd ad høndum fer.

55. Í Arkadíu landi lá, lundur einn til prídi spar, hús þar í um stund nam stá, stáls hvar neinn ei þundur var.

56. Hofið forna helgað var, hulið dala skuggum grá, svörtu nornum nástrandar, níðhöggssala kvölum frá.

57. Audt var landið allt þar hjá, einginn manna kémur þar, því að fjanda svipi sjá, sérhvör vann er híngað bar.

58. Háaltari í hofi fest, heillum víkur manni' á bak, af marmara svörtum sést, so var líka gólf og þak.

59. Evergítas fiska fer, að finna í leini húsið téð, þángað slítir frekur sér, fimtíu sveinum ödrum með.

60. Líka gildi Sónippur, görpum fylgði á þetta svið, eiða vildi vinna hvör, við nauð-trílda altarið.

61. So í auðum salnum þar, svörðum klæða altarið, síg til dauða að vígja var, virða skjæða erindið.

62. Hefndir Spörtu og heiptir sver, hvör so leingi standa má, þeim í hjörtum eldur er, illsku streingja heitin grá.

63. Vondu særa völsurnar, vestann minda járnaklið, og frábæra eiða þar, allir binda þessar við.

64. Tóku bræður tígin vönd, teikn er vera áttu þeim, svört herklæði og blóðrauð bönd, búnir snéru síðan heim.

65. Þessum lundi fer eg frá, er fleiri mundu óska sér, höldur blund mig físir fá, fata undir skjóli hér.

## Þrettánda Ríma.

Sigurðarbragur. Ní lánghenda.

1. Far þú þundar fuglinn minn! fræða bráða enn að leita, so ei blundi saungurinn sem eg náði kveðnum heita.
2. Fljúg þú bæði lönd og lá leita máttu breidt og víða, síðan ræðinn seigðu frá sögum hinna fornu tíða.
3. Þar af smíðum síðan saung, so mun Iðun stirkja vilja, verður tíðin valla laung, vísur meðan fáum þilja.
4. Þú so fara frá mér skalt, fræðin þegar búin verða, þilja snarast efnið allt eðalbornum runni sverða.
5. Sit þú spakur örlum á álahallar ljósa baldri, honum kvaka háttu smá, hinna ekki sinntu skvaldri.

6. Þó ad hinir heimsku tal, henda meigi ad þinu kvaki, líki vini ljódagal lát þér nægja, fuglinn spaki!

7. Þegar honum ferdu frá fréttalaus og hljóda bædi, vinakonum vorum þá verdur þú ad gala kvædi.

8. Þú skalt bljúgur þjódar kátt þelid reina tídt ad géra, þú skalt fljúga létt og lágt og látast aldrei mikill vera.

9. Vina minna vertu þrátt vænsta skémtun hvar þá finnur, þeir adhlinna þér so dátt þrávalt; bædi menn og kvinnur.

10. Þú skalt lída heimskra hád, hógvær allar deilur sefa, þú skalt hlída ef heilla rád higginn madur vill þér géfa.

11. Vorid hrekur vetur frá, varma géfur ljósid frída; vopnast tekur þjódin þá, þirstir flesta til ad strída.

12. Drustuvísi Epýtinn, eggja higgur birja þrætur, vid Pamísu sjóinn sinn, safnast allann herinn lætur.

13. Gorgur mæti og Mantiklur, mundu þar í tíum fridum, heill ágjætur herflokkur, hverfur ad á allar sídur.

14. Evergitas Gónipp med, sem grimdar bítur skap óhíra; þángad slíta ferdum réd, med simtíu ríta svarna tíra.

15. Epýtitinn flódi frá, ferd á slétta vøllu nemur og þar líta øldin má, Arkadíu lidid kémur.

16. Aristókrates kóngur er, køppum þessum á ad ráda, hann med hvata híngad fer, hvørgi máské þó til dáda.

17. Panormur med plátu og hjør, prúdur nádi híng- ad vitja, hugadur í hinna før, hrøfnum vildi átu britja.

18. Arkadíar mætir mest, Messeníngum føgnud géra, þeirra frii þeingill sést, þó med dimmu bragdi vera.

19. Ødlíng móti Epýtinn, ástudlega gánga nádi, litt til bóta hressist hinn, hér ad var sem eigi gádi.

20. Sparta þjódin þokast nær, þessar mundir hinum líka, þeirra ódum grimdin grær, gráum þundar ljósum flíka.

21. Anaxander vitur vann, vinstra færa merki þjóda, hefur brandinn blódþirstann, búinn skjæru stjørnum flóda.

22. Eins til vígaæsir þjóð Anaxdamur hægra meigin, flokkar síga fram um lóð, fornaham er þjóð umsleigin.

23. Bakka áar búdir vid, bragnar reisa þá ad sinni, hvílast má í húmi lid, þó heiptar eisa í skapi brinni.

24. Enn nær dagar Epýtinn alla vekur þjód ad strídi, hesja slag vill hetja stinn, herjans tekur eldaskídi.

25. Arkadíu ødlíng þá, Epýtann ad stansa bidur ádur drígja offur há, eisu hrannar sagdist vidur.

26. Hinn þar leidast lætur til, lidid bídur þrenna daga, álfarskeida um þad bil, offurtída skarti haga.

27. Medan fremur þjódin þad, þeingill Arkadíu manna, Anaxdemi bodog blad, bera lætur sína granna.

28. Ødlíng slægi ad eirum hanns, íta þetta bera krefur, allt um hagi Epýtanns, ill so prettabrøgdin vefur.

29. Þeir í leinum laga rád, laufagní þar bragnar drígja, þá í einu eiddir dád, Arkadíar skuli slía.

30. Svika skjótir sjólar þá, síngur pláta undir brandi, hvør á móti ødrum á ota látast þjód strídandi.

31. Ekkért grunar Epýtann, ad hann muni pretta lídir, leingur unir ekki hann, orustuna hefja tídir.

32. Vita ei heldur svikasíd, síns foríngja Arkadíar, þeir á veldi veita lid, vilja enn og sóknir níar.

33. Messeníngar vígs á vøll, víkja slíngir þá med ædi, sverdin klíngja í einu øll, øldrud síngja hildarklædi.

34. Hvetja branda í hugarmód, hamdís grandi þúngu medur, Anaxander øtul þjód adsígandi móti kémur.

35. Glimja saman gjørd og klót, glóir día ljósid skjæra, Anaxdamur ekkért mót, Arkadíum vill sig færa.

36. Sídan biturt hornahljód, hvella slitur raust á vøllum, undir titra tekur lód, tónar slitu sig úr fjøllum.

37 So ad fundi sígur lid, sólir þundar skína vída, dæsti og stundi vøllur vid, valnum mundi þúnga kvída.

38. Eins er þá og þrumuski, þau er stormar tvennir drifa, líða háu lopti í, með ljótu formi ifirsvífa.

39. Eldi þeita og þrumu-raust, þúngri beita' ædi medur, saman streitast so ólaust, svørtum fleitir hami vedur.

40. Saman ná med hótin hørd, hræfarþráum spítà glódum, berjast, slá og bisa jørd, bilur þá í skrugguhljódum.

41. Nítur einginn eirdar sér, undan geingur hvad sem lifir, sona sleingist saman her, sverdin fleingjast hjálma ifir.

42. Hjálmar þolad høgg ei fá, hausa mola trøllin benja, dreirinn skolar branda blá, brinjur holar undir grenja.

43. Høldar finna heljar svið, holundinni blóð úr lekur, røgners kvinnu rédi vid, raud um kinnar verda tekur.

44. Gónipp frá skal greina hér, þar glosðar bláu hrana duna, strax og náir hittast hér, hleipur sá á filkínguna.

45. Hefnd og dauda hrópar sá, hrottinn raudur nudir kvedur, fleingir kauda fleini blá, fram um haudur gøndlar vedur.

46. Flokka brítur vígs um vøll, vóð med fliti snørum þorinn, skrokka bítur benja trøll, blóð umflítur gjørvøll sporin.

47. Skédur lidid bøl og bann, bedur vidur stundi mara vedur idur hildar hann, hledur nidur daudum skara.

48. Fúlhamadur fleingdi nad, frægdar madur þannig leingi, merkjum ad um vígavad, volgu radar nidur meingi.

49. Anaxander þeingill þá, þessum fjanda móti snéri, reidir brand ad sjóla sá, sinna handa njóta kéri.

50. Kóngur beudir kesju blá, kíf so endi þegninn módi, sló úr hendi þreittum þá, þundar rendann loga blódi.

51. Vildi hlífa hilmir þó, hetju lífi í søgdu bragdi, enn brádur kníf af belti dró, og budlúngs stífur móti lagdi.

52. Lopti þá nam leiptra á, løudúngs bláa stjarna tiggja, hausinn má í herdar flá, hrafnar náinn dauda þiggja.

53. Þar í hríng um líkið lá, í ljótum díngjum fólkið þanninn, mirdt í kíngi málma þá, sem múgur kríngum sláttumanninn.

54. Þar sem ædir Eyýtinn, allteins klædir náriun svædi, banvæn flædir blódrøstin, braust hinn skjædi fram af mædi.

55. Hlífar gráar hrofna fá, hjør þar brá hinn ofurknái, sjúka hráir hausar þá, hanns af bláum slídra ljái.

56. Vinstra meiginn Mantiklur, meingid deija lætur Sparta, Gorgur eigi ófimur, eggjasveigir silgdi bjarta.

57. Þessir fleingja hlíf og hold, hinna meingi sætir føllum, saman eingist fridlaus fold, sitir dreingja ofur skøllum.

58. Frægir standa og fleita rønd, Fintas Androklesi medur, lidi granda' á hægri hønd, heitast branda þróa vedur.

59. Kilsu, ódur Androkles, eina slódum reidir fálka, meidir rjóda mánahlés mjøg í blódi þvodi skálka.

60. Fæstum seigja frá eg kann, fólk þar sleigid tekur helja, því ad meiginn mannfjøldann, mér er eigi fært ad telja.

61. Eptir þrótti øldin berst, ei er rótt um fenrisverinn, vardist, sókti, sigrar, ferst, sérhvør drótta um allann herinn.

62. Dísir verda valgautar, vanar sverda kvædum hlída, manna herda hugi hvar, hrofnar gérd og undir svída.

63. Blódi felast frónid má, fleina eli linnir valla, situr hel og horfir á, hún útvelur þá sem falla.

64. Løndin skjálfa undir øll, ekki er hálfur stundar fridur, flía álfar upp um fjøll, ógnar sjálfum leikinn vidur.

65. Foldin undir ópi kvad, óttast mundi sverda kíngi, nema undur aungan stad, øll þó sundur fjøllin springi.

# Fjórtánda Ríma.

Sléttubönd.

1. Gröndin dvína hrída hrá, hrakinn þrotnar vetur, londin sína blída brá, batnar gotna setur.
2. Fannir eidast lignir lá, leisist ísa-skorin, annir greidast þjóda þá, þegnar prísa kjörin.
3. Suma hagur vænkast vid, verold náir glita, sumardagur lánar lid, loptid sáir hita.
4. Glóameida ángra ei, illu tæti vinda, róa, veida, hirda hei, holla kjæti minda.
5. Midur hlída þikir þjód, þessi vinna núna, vidur bída lasin ljód, letur spinna rúna.
6. Flóa-bála-meidi má, medan tídir leisa, sljóa mála fundinn fá, fræda smídi hreisa.
7. Klæda blída hlíni hjá, happa þádi saungin, gjæda tída minnast má, medan skrádi saunginn.
8. Duga Idun máttu mér! medan kvædi laga, huga fridun leingi lér lofnin kvæda haga.
9. Hinir slái gróna grund; gjæda neita tída, vinir fái mærdar mund, mínum sleita vída.
10. Verdum smída hagann hátt, hressist gildur kraptur, sverdum snída fólkid frátt, fisist hildur aptur.

11. Hildar stendur elid enn, undir veina hlífar, gildar hendur meiga menn, máttar reina stífar.
12. Ever-gíta fregnum frá, sláir rokkinn brúna, hesir ríta sendir sá, svarna flokkinn núna.
13. Æda hljódum miklum med, meidar þráu hrínga, blæda ódum rekkum réd, randir gráu springa.
14. Líkur föllum áa er ódur seggja flokkur, víkur öllum hugur hér, hrofnar tveggja rokkur.
15. Móti þessum lofdúng lét lidid sparta buga, brjóti hressum mækja met mannskaps hjarta duga.
16. Undan hrakid frækinn fær, flokkinn kauda strída þundar nakid ljósid ljær, lídum dauda kvída.
17. Aptur herda mundu mátt, mækja þundar hinir, raftur sverda bugast brátt, burtu skunda linir.

18. Evergítas vedur vøll, vopnid níta grenjar, géfur íta flokki føll, flódi spíta benjar.

19. Hildar gladur eingi á, aldrei stadar nemur, snildar hradur þjódir þá, þrautum skadar fremur.

20. Greidir dauda Epýtinn, ótal manna hinna, reidir nauda sárann sinn, svafners ranna linna.

21. Ramur bjarta skjómann skók, skildi rífur bera, gramur Sparta undan ók, álfi hlífa skéra.

22. Fødur medur Gorgur gékk, gusti skálma stíra, lødur vedur benja bekk, britjar málma tíra.

23. Handa knáir sóknar svid, sveipa flódi æda, standa fáir virdum vid, velli þjódir klæda.

24. Hrundi brinja mæki mád, margir finna bana, stundi kinja lamid lád, lúin kvinna grana.

25. Harka drígja mordid má, manna grúa deiddi, Arkadía þjódir þá, þeingill flúa beiddi.

26. Stillir valla æru ann, ædru hljódum beitir, villir allann herinn hann, hrædast ódum sveitir.

27. Trúa hara mundu menn, mínka fríar dádir, snúa fara undan enn, Arkadíar hriádir.

28. Móda øldin gramdi géd, geira blødum hepti, þjóda fjøldinn ridlast réd, réttum stødum slepti.

29. Skada gérir vestu vøld, vélum níu tamur, þadan snéri allri øld, Arkadíu gramur.

30. Þadan hída ekru á, álfar linna reita, skadann lída mesta má, mildíng hinna sveita.

31. Verinn stífur sverda sá, sveistar raudum brøndum, herinn rífur þverann þá, þeitir daudum fjøndum.

32. Skildi traustu budlúng braut, búkum landid hledur, silgdi hrausta geiragaut, Gorgur brandi medur.

33. Bádir géra harda hríd, hristar titrar dína, brádir skéra leingi líd, lendur bitrar hrína.

34. Geira rjóðum brestur bið, blóðið sveita lekur, dreira flóðum velgja við, vøllinn heita tekur.

35. Finna verðum Androkles, eggjum beitir rauðum, slinna mergðum, hita hlés hlinur þeitir dauðum.

36. Digra reiða kilfu kann, kvíkna undur fremur, vigra meiða henni hann, hausa sundur lemur.

37. Rauðum veður eingum á, auðuns kveður hempa, dauðum hleður niður ná, nauðum meður kémpa.

38. Niður flóði banablóð, báleiks fljóðið undrar, viður rjóði stála stóð, sterkar þjóðir sundrar.

39. Hóti eigi sóknar seinn, seggur mundi stríða, spjóti fleigir øtull einn, eptir þundi skíða.

40. Misti sína kilfu knár, késjan bítur hana, listi sína frægðir frár, firri hlítur bana.

41. Krapta herður vopnlaus vann, verða þundur fríður, aptanverðu mikinn mann, mækir sundur-sníður.

42. Dreira rauður valur vár, víga blauður miður, geira hauður þjáður þar, þreingist dauður niður.

43. Lítur barma Fintas frár falla, voða kvíðir, bítur harmasiki sár, segginn stoða tíðir.

44. Lítur sleignum halnum hjá, hirðir menja blíður, bítur gégnum þennan þá, þrútin benja gríður.

45. Báða spannar hlíra hel, heilla møgur dróśa, báða manna verkum vel vorar søgur hróśa.

46. Stendur harði Epýtinn eblir drjúgum þrætur, rendur barði, herinn hinn hníga múgum lætur.

47. Fáir standa honum hjá, hlítir valla gaman, knái randa þundur þá, þeśsa kallar saman.

48. Þegnum kéri hefðir hér, harðnar sér hann róma, gégnum herinn hinna fer, hristir berann skjóma.

49. Gildir óðu bragnar blóð bekki móðu djúpa, skildir góðu hafa hljóð, hetjur móðu kijúpa.

50. Evergítas þángad þá, þreingjast reidur nádi, hefir íta sundrad sá; sikling greiþur tjádi.

51. Kinstra sleigin undrum ad, orka dvíni hinna: "vinstra meigin hermdu hvad, hetjur mínar vinna?"

52. Linna dúna tírinn tér: "tølum bót um adra, þinna núna einginn er uppá fótum þadra."

53. "Þínir farnir munu menn, mæki undir randa, mínir svarnir ítar enn, ekki fundu dauda."

54. "Beigja láttu þánka þér, þeigi bródur naudir', seigja áttu hvørnig hér, heppnast gódur daudi."

55. Svarar gildi þeingill: "þá þjódir beita kífi, vara skildi medan má, munum veita lífi."

56. Kallar sídan øtull á álka linna dúna: "alla strída filkíng frá, fleingjum hinna núna."

57. Hjørtum dreingja þóknast þad, þjádir ópi randa, Spørtum þreingja allir ad, einum hópi standa.

58. Losid bjarta øldin á, álfum nada senda, rosid Sparta filkíng fá, fljótir þadan venda.

59. Hlinum treju sædist fró, fjúkid hepti mækja, hinum eigi þóknast þó, þessum eptir sækja.

60. Gildur skeida hjørinn hér, hølda vitja náir, hildur leida ørmædd er, ekki sitja tjáir.

## Fimtánda Ríma.

### Afhendíng.

1. Opt er bædi of og van af ímsu tægi, eins er þad um okkar bragi.

2. Nær eg þennan slitja fer í flokki hinna, higg eg ei til hóls ad vinna.

3. Lánghendíngar lía manni lúngu og anda, so augun eins og storkin standa.

4. Afhendíngu ofur stutta adrir kalla, kveda hana virda valla.

5. Ferhendt mætti medal vegur máské heita, og hljódin rétt í hófi þreita.

6. Irkja skildi eg ef vissi ekki bannad, ferhendingu og aldrei annad.
7. Enn og þekki mína menn þeir mundu seigja: eins vel færi þér ad þeigja!
8. Flestir mundu ferhendurnar finna ríngar, því allt vill hafa umbreitíngar.
9. Enda þikir opt og tídum einum prídi, þad sem hinir hafa ad nídi.
10. Feiginn vildi eg ad óskum allra géra, enn þad mun nokkur vandi vare.
11. Afhendingin er mér kjærst af ollum brogum, þegar irki ód af sogum.
12. Albúid er erindi hvort og allt í skordum, ef tillt er saman tveimur ordum.
13. O ad væri elda tiri eingja svana! allt eins ljúft í hug vid hana.
14. Raula eg í rádaleisi rímu eina, óhætt verdur oss ad reina.

15. Epýtinn med ángri nádi undan leita, eptir missir sinna sveita.
16. Anaxdamur ærulitill íllsku refur, sigurvørdu hladid hefur.
17. Evergitas á þad sér og unir midur, henni vildi hrinda nidur.
18. Epýtinn þeim ordum fer vid álfinn branda: "láttu vinur vørdu standa."
19. "Sannan hafa sigur þeir í sóknum feingid, flest er okkar fallid meingid."
20. "Hetjur mínar hef og misst, því harmar svída, Androkles og Fintas frída."
21. Ollu fólki Epýtinn lét ad sér stefna, rádin verdur ønnur efna.
22. Ungir menn og øldúngarnir ásamt konum, safnast mundu so ad honum.
23. Bigdir allar brenna lætur budlúng sédi, því vard mørgum þúngt í gédi.

24. Þamíðu þeir ána ifir allir dràga, síðan fram að fjøllum slaga.

25. Með føður sínum Gorgur gékk og gjørir svara: "hvørt á þetta fólk að fara?"

26. "Allt er fallið okkar lið, því eiðast varnir, utan børn og øldúngarnir."

27. "Messeninga minnst um frelsi meigum vona, first að allt er farið sona."

28. Ansa náði Epýtinn: "eg enn mun reina, vorn fólki að varna meina."

29. "Ei skulu þeir úngu menn er eptir standa, hníga undir eggjum fjanda."

30. "Eg um þennan eptir vorðna eðla grúa, áfett hefir betur búa."

31. Gorgur hristi hjarna tind og heldur eigi, Epýtinn því orka meigi.

32. Fólkið allt að firna háum fjøllum þremur, síðan meður sikling kémur.

33. Filkir skipti fólki sínu í flokka þrenna; þegar fram að fjøllum renna.

34. Varnargarða vanda biggja vitur lætur; kríngum allar fjalla fætur.

35. Metóna ein hæðin hét við hafið næsta, høfn þar búa høldar læsta.

36. Enn á hinu efra fjalli er Era heitir, varnar festíng setja sveitir.

37. Þángað lætur flitja fé og faungin manna, vitur njótur fíngra fanna.

38. Með tvøfoldum múr var hlaðið mikla vígi, laga menn þar leinda stígi.

39. Øllum mønnum Era þókti óvinnandi, virkið þegar var í standi.

40. Meigin fjallid mikid er, þar meiga hjardir rekast um, og rækta jardir.

41. Pilus tindinn lofdúng lætur líka verja, so þángad ei er hægt ad herja.

42. Skipti sídan skjøldúng øllum skára nidur, á fjøllum þessum búa bidur.

43. Gorgur undrast adferd hans í allann máta, hóf þó rædu hetjan káta:

44. "Nú má fadir! fánga okkar fólkid seigja, hér má þjód af húngri deija."

45. "Eg vil," svarar Epýtinn "þeim abla rétta, hrædstu ekki heldur þetta."

46. Þegar vígi eru øll á Eru hladin, bragnar fara og biggja stadinn.

47. Oldin Sparta allar þrautir endtar higgur, øll Messena í eidi liggur.

48. Landi þessu skøtnum skipar skipta framur, ødlíng þeirra Anaxdamur.

49. Flitjast þángad fólkid lét til frama higgja, akra sá og bæi biggja.

50. Hér ad níu húsa fjøldi hækka tekur, haga alla hjørdin þekur.

51. Ennþá lætur Epýtinn sem ekki sjái, bragnar hér þó biggja nái.

52. Anaxander aungvann hlut tók í því landi, óttast hann ad aukist vandi.

53. Epýtinn, sem einatt sér hvad ítar vinna, Evergitas fer ad finna.

54. Ofs er, kvad hann, ordid mál til abla leita, korn ad sækja og saudi feita.

55. Hundrud nokkur hérnæst med sér høldar taka, og Pamísu til áar aka.

56. Panormur áeptir er med annann skara, hundrud sex í honum fara.

57. Klæddir létt og úngir eru álfar skída, virdar þeir vid vadid bída.

58. Spýtinn med annann hópin orku stinna, hérad stórt nam firir finna.

59. Hlidin söll þar hetjan lætur hvata geima, fælast taka hinir heima.

60. Hildíng seigir: "hér skal einginn helju fánga, á mitt vald ef viljed gánga."

61. Fólkid ekki vænna veit vid vandann stránga, enn láta sig med lífi fánga.

62. Allan fénad akrasád og audlegd hinna, höndla lætur hetjan svinna.

63. Bundna menn og einnig allann audinn fridann, Panormi hann sendi sídann.

64. Um þau heröd öll hann hernad ærinn rekur, fángar menn og fénad tekur.

65. Heim á Eru heldur so med happa veidi, landid verdur allt í eidi.

66. Fréttist þessi ferdin heim til fólksins Sparta, þá vard mörgum þúngt um hjarta.

67. Anaxander Eru til nam æda stúrinn, enn finnur hvörgi færann múrinn.

68. Falar hann, ad fánga meigi frjálsa géra, enn dögling seigir díra vera.

69. "Verd eg nú" so hjalar hann, "med hirdsveit minni, á hagnad lifa og höndluninni."

70. Ei ad sídur allir þeir vid ærnu gjaldi, frjálsir géngu úr fánga haldi.

71. Spýtinn nam opt og þrátt héreptir ræna, varast má ei kappann kjæna.

72. Amikla hét stadur stór er stírir sveita, eittsinn nádi adsókn veita.

73. Mikid gull sem matarfaung og menn og kvinnur, þar nam fánga þegninn stinnur.

74. Alla sídan brennir borg í báli rauda, fer so heim med fánga snauda.

75. Aptur firir ærid gull hann íta seldi, spillist audur Sparta veldi.

76. Leingi heldur hetjan þessum happa vana, enn aungvum manni bír hann bana.

77. Eitthvørt sinn til abla fer hann út um geima, Sorgur er þá ekki heima.

78. Fer hann sína festarmei ad finna blída, eg vil helst med honum rída.

79. Honum eingin hætta skér hjá hildi banda, enn Eyýtinn á von á vanda.

## Sextánda Ríma.

### Kolbeinsbragur.

1. Ekki má vid høppin há, hroka sér því tídum skér lukkan hjá sér hrekki á, hún opt þver þad reinum vér.

2. Eins er slátt ef abli og mátt, ætlum ver ad treista hér, opt og þrátt þeir lutu lágt, sem létust vera nógir sér.

3. Ad hér sé allt í heimi valt, hafa svarid kérlingar, þeim ávalt er þelid kaldt, þarum hvar sem géfa svar.

4. Hérum skrá ei margt eg má, mér er nær ad láta þær hér um spá sem faung til fá, fródleiks æran hjá þeim grær.

5. Pig skal Idun! eina vid, ódins-vala hafa gal, so ad idu elda vid, ódar valid líki skjal.

6. Eg má haga og breita brag, bila ódum taka hljód kolbeinslag því læt í dag, lesa flóda stjørnu rjód.

7. Vildi eg hann er vísum ann, virdi hér til góda mér, brag eg annann eigi fann, ódar kver því leingiast fer.

8. Fáir hér þeim hætti eg ber, hafa sídar rímur léd, þiki mér hann sómi sér, sé hann kvedinn lagi med.

9. Látum sjá hvört lukkast má, ljóðaskrá að bjóða þá, þar sem bláir fleinar flá, folann ná og hlífar grá.

10. Líki þér sem lofstir ber, ljóma flóða baldur! hljóð, viljinn mér þá veittur er, verða ljóða spjöllin góð.

11. Um þá stund með stífa lund, stefnir svinnur Epýtinn og þriúhundruð hers um grund, í hildar vinnu útbúinn.

12. Anaxander allt um land, á í leini margann svein, prettavandir húnir brand, budlúng treina frétta grein.

13. Um það sinn nær Epýtinu, áfram gérir hvata sér, læðist slinni einn sá inn, í hans her því dimma fer.

14. Heirir sá hvört halda á, hleipur því með boðin ní, sínum tjáir sjóla frá, sverða gní mun herða því.

15. Með sinn her er mikill er, milding frái Sparta þá, eptir fer þeim ablið ber, ítar knáir finnast ná.

16. Messenínga meingið kríng mikið fáa hríng nam slá, hildar sprínga hljóð óríng, hettir gráir klofna þá.

17. Fárið sér og fisist hér, flía stinni Epýtinn, þessu ver hinn harði her, hetjur finna dauða sinn.

18. Rennur blóð sem bilgju flóð, berst að strønd við vedra grønd, banast þjóðin beggja móð, brestur rønd og flúði ønd.

19. Oðum kallar orku snjall, Epýtinn á flokkinn sinn, blóðið vall um hildar hjall, hetjan vinnur þjóðir stinn.

20. Var eins þá og starar strá stífist ljá, í kifi há, kaudar dáið dauða fá, dundi láin unda blá.

21. Hleður þjóðum meður móð, mækja óðum skrækja hljóð, sédur vóð og sedur gjóð, sækja flóðin lækja blóð.

22. Gégnum herinn frægur fer, fólkið skér og hlífar mer, hvør sem sér þann hrottann ber, heldur gérir forða sér.

23. Barði móður heima og hlóð, britja þjóðir kann um slóð, af svarðar lóð á seima rjóð, sviti óðum rann og blóð.

24. Preitast kná við sveitir sá, sára ljá að fári brá, streitu þá so heita há, hár ei gnáar tára má.

25. Flokkar sveina vekja vein, víkja frá þeim dørsi brá, taka steina í hauka hlein, høldar þá og kastad fá.

26. Hittir einn sá illi steinn, Epýtann vid hjarnar rann, aptrast sleinn því aungvit hreinn, orda glanna tírinn fann.

27. Messenarar æpa hvar, ødlíng knái hníga má, fisir snarast slía þar, enn fleinar bláir sveina slá.

28. Fimtíu manna' og foríngjann, færa í bønd þeir snída rønd, hina spanna helja vann, um hristar lønd því mistu ønd.

29. Heim til Sparta halda snart, høldar knáir mundu þá, fólk óspart þeim móti margt mátti gá og fánga sjá.

30. Gledi heirast hljód um leir, hrópar kvinnu flokkurinn, vaknar eirar orma freir, Epýtinn í þetta sinn.

31. Børum á hann bundinn lá, bistur sér hvar komid er, hugarþrá hann þróa má, þannig tér nú lágt med sér:

32. "O hvad gérid gudir þér! gleimid dád sem trigd og nád, slíkur hér minn endi er, ei í brád því hefdi spád."

33. Hreistimanni heiptin brann, høndum má ei lausum ná, gnísti tannir hardar hann, enn hvarma skjái birgdi þá.

34. Torgi nær so øldin ær, øllum snara faungum þar, þessa færa bønd þúngbær, hjóda marar eiglóar.

35. Um fánga hrjáda halda rád, hildíngar og Eforar, aungum tjád skal af þeim nád, í eina snarist grifju þar.

36. Mordgrifjan sem bídur bann*), botnlaus hér í klettum er, sakamanna sægur fann, svistast fjør í heljar hver.

37. Trigdir Anaxander man, Epýtann vill frelsa hann, nú so bana verdi van, vitur þannig rædu spann:

38. "Orma skridu gauti grid, géfum vér þad betur fer, bindum vid hann fullann frid, frægdin hér sú mesta er.

*) Mordgrifju þessa kølludu Spartar Keadaen, var í hana varpad øllum sakamønnum hvadan, einginn hafdi lífs ad vænta.

39. Anarðamur ansa nam: aldrei sá skal gríðum ná, nú með sama í grísju gram gjørum þjá, enn vægð sé frá."

40. Að þeim dómi æstu róm, Efórar og herinn þar, firir hljóm því fær ei tóm, filkir snar til miskunar.

41. Anarander leið um land, leingja kann við Spýtann, ræðu vanda búinn brand, blíður þannig náði hann:

42. "Dæmdur þú til dauða nú, dørfa mesti tírinn sést, hræðslu knúin hirðin sú, hreisti géstinn óttast verst.

43. Þjóðin kunda faungum frá, fjølnirs ranna ártalann tekur þá, enn einginn á, Spýtann vill ráða mann.

44. Bønd hans hari bestur skar, blíðka sinni mátti hinn, ødlíng svarið eblir snar: "Spýtinn er fángi minn."

45. "Ei um lønd þig bera bønd, banans til eg láta vil, tak þú rønd og hjør í hønd, heljar gil þó svifti il."

46. "Einginn mann skal høndla hann, hjørinn spanni náfølvann, hraustastann eg hildíng þann, heims um ranna vera sann."

47. "Nú þó stansi dørfa dans, dáða frái kappinn sá, vopnin hanns þess hrausta manns, í hendur má ei nokkur fá."

48. Faðmar elrar orma freir Spýtann og kissa vann, ødlíngs heirist ama þeir, og nú þannig mælti hann:

49. "Sakk þú hetja! héðan set heljar til eg við þig skil;" sumir géta sikling grét, svarðar hilur fagra þil.

50. Hinn sem par ei hræðsla skar, hætta verður birja ferð, geingur snar til grisjunnar, girðtur sverði í líða mergð.

51. Þjóð fer til í heljar hil, henda knáir faungum þá, eptirskilinn um það bil, ødlíng hái mundi stá.

52. Einn nú var hann eptir þar, einginn mann því dirfast vann að taka hara høndum hvar, helja spanna átti þann.

53. Anarðamur óttast nam, og so tér: "það sínist mér, orku ramann einginn gram, ætlar sér að fánga hér."

54. Kémpan háa horfdi á hann og seigir: "dáðlaust grei, þú skalt fá með sanni sjá sikling! ei eg hræddur dei!"

55. Löndúngs spanna ljómann vann, lundin frökk ei verdur klökk, sjálfur hann sá hreisti ann í heljar dökkva grisju stökk.

56. Öllum brá í brúnir þá, burtu þjódin snéri hljód, hetjan dáin hrósið þá, hugar gód á Sparta lód.

57. Anaxander upp um land, aptur fer med valinn her, enn vill randa auka grand, ad so snéri fjöllum hér.

58. Messenarar þjádir þar sem þrautin náir harma þjá, undan fara alstadar, Eru háu tindum ná.

59. Gorgur sveimar híngad heim, harma þétta gétur frétt, ekki gleimist aminn beim, enn hann þetta mælti sett:

60. "Greinid mér nú hvörjir hér, hefndar bjarta næra art, hvad sem skér eg hédan fer, heim til Sparta bigdar snart."

61. "Allt, hvad má vér mirdum þá, maki slódir þeirra blód, þótt vér náum fjörtjón fá, födurs góda hefni þjód.

62. Evergítas ordin nít, efna gérir: "strax med þér fer eg íta ad rjúfa rít, til reidu er minn svarni her."

63. Vilja fáir fleiri þá, fara med því klökkt er géd, þetta má ad morgni sjá, menn fá bed því kvölda réd.

## Seitjánda Ríma.

### Frumhenda.

1. Eg vil leita Eptýtanns, ángur ber því lindi, ekki veit um hagi hanns, hvarf hann mér í skindi.

2. Mun í glödu sinni sá, í sölum mæta herja og valfödurs hendi hjá, hædstu sætin verja?

3. Heilsa mundu honum þar, og hug af raunum fjörfa, vinleg sprundin valhallar og vinnu launa dörfa.

4. Eda skal hann ekki frí, enn vid strídid nauda, grisju kvala enn þá í, óhægs bída dauda?

5. Eda mundu eingin rád, ödlíng svinnum gagna, sem óbundinn sökk í lád, sídast hinna bragna?

6. Sé hinn slíngi silkir frá, og frægd má eigi sína, Meßenínga hreistin há, higg eg meigi dvína.
7. Þá mun Hildur heitum val, hrósa snidug midur, first hinn gildi falinn skal, foldar vidur idur.
8. Slota kvædum mínum má, máls þar frædum stiri, þó ad rædur fisist fá, flóa glæda tíri.
9. Jeg vil taka eida af øllum skeptum vættum, ad ei saki stála staf, enn stidji kroptum bættum.
10. Særi' eg hírum lidsemd ljá, lausa tír í meinum, sérhvørt dír sem ekru á er og bír í leinum.
11. Verdi eingin ønnur ráð, ødling feingin gódum, skal eg leingja ljóda skrá, líksaungs streingja hljódum.
12. Hollur vinur hanns og minn, hird el midur virda, ekki er kin þó eg um sinn irki kvidu stirda.

13. Øldin vildi um þad bil, ádur blundinn reina, harmur filgdi hvílu til, hvørjum þundi fleina.

14. Þá til furdu þorra manns, þad mun hrinda trega, var á hurdu høfdíngjans hrundid skindilega.

15. Dir upp þenur virda val, viturt slíti medur; Aristómenes inn í sal, Epýtitinn tredur!

16. Þegnar stansa þegar sjá, þeingil hallir biggja; Gorgur hanns nam fadmløg fá, føgnud allir þiggja.

17. Hóf ad seigja fólki frá, flóa skara rádur, hvørnig deigi harma á, hafdi farid ádur.

18. Fánga grand og fjandleg ráð, firdum greinir hreldur, Anaxanders edla dád, ekki leinir heldur.

19. "Stokk eg þá," hinn sterki tér, "ad starfi nauda hradur í grifju þá sem øllum er ødrum daudastadur."

20. "Mirkt í kríngum mig þá var, meir enn nóttin drottni, ofan á díngju daudra þar, datt eg skjótt ad botni."

21. "Þó í fári þetta sinn, þar í pínu nauda, hinna nár og herklædin, hnektu mínum dauda."

22. "Þrenna daga þar eg lá, þrauta stúnginn nídi, øll nam baga ánaud þá, ángur, húngur, kvídi."

23. "Vafdi' eg klædi vaungum ad, víst þó nádi heira eitthvad lædast í þann stad, ad því gádi meira."

24. "Heirdi' eg dír eitt naga ná, nú med høndum leita, tóu stíri þreif eg þá, þékti vøndu breita."

25. "Hlaupa vildi hún á stad, hélt eg linur þeigi, h.nni filgdi holu ad, hér sá skin af deigi."

26. "Sleppti eg tóu víst sem var, veitt til stóru bóta, heldur mjóa holu þar, hérnæst fór ad brjóta."

27. "Eg um kveldid upp kom þá, aldin tína nádi, næríng heldur holla þá, húngurs pína þjádi."

28. "Frá Korintu fann eg hal, fréttir slíngur rækja, mér hann kinnti ad mikill skal, múgur híngad sækja."

29. "Sportum vilja veita lid, vopnin raudu skaka, okkur skilja Eru vid, øld til dauda blaka."

30. "Bad eg inna einnig hinn, Efórunum kauda: ad Epýtinn sé uppstadinn, úr grifjunum dauda."

31. "Eigi trúdi þessu þá, þundar kérta gèstur, sídan snúdugt fór mér frá, frétta skérdti lestur."

32. "Nú skal fara strax á stad og stálin køldu heita, Korintara eg mér ad ætla tjøldum leita."

33. Vona eg þá nær glimur geir, í gusti randa skjótum, trúi og sjái þrælar þeir því eg standi á fótum.

34. Feigin þjódin filgja réd, fjølni glóda boda, Neda slódi nidur med, nú hamódir troda.

35. Hinna tjøld þeir fundid fá, flein um kvøldid skaka, hlimur skjøldum hrottinn á, hettir nøldra og braka.

36. Fram Epýtinn frægsti trad, fleinninn þjakar skjøldum, Evergítas annann stad, er ad baki høldum.

37. Losna herdum hausar frá, helst er ferd ad meini, fir enn sverdum sumir ná, sundrast verda fleini.

38. Allir sjá ad Epýtinn, ekki þá er daudur, vefur náum veiginn sinn, vigur knái haudur.

39. Korintarar føllin fá, fljótin vara dreira, foríngjar med hljódin há, herinn þar fram keira.

40. Þeirra fjórir foríngjar, fleins að vóru hljóði orku stórir allir, hvar unda sjóinn flóði.

41. Allir kríngum Spýtann, ítar slíngir sækja, sverda þíng ei hræðir hann, hardnar kíngi mækja.

42. Hípermenes firstur fer, fall í herdar sleiginn, hneig í benja høf ófær, hlinur sverda veiginn.

43. Iektur vill rjóða rønd, enn ráður íta mætur, móðugur af honum hønd, hrottann bíta lætur.

44. Høggið annað Spýtinn, aptur manni greiddi, fellur hann því holundin, hels að ranni leiddi.

45. Lísistratur lagði geir, lofdúng hvata móti, enn hann flatur féll og deir, firir skata spjóti.

46. Alkídeur einn er þá, undan vildi leita, enn hann hué því hremsan blá, hlini filgdi skeita.

47. Foríngjunum fær so þá, fargað þundur skeita, her að vonum hræðast má, higgur undan leita.

48. Enn á móti ítum þá, Evergítas vedur, hetjan spjóti beittu brá, búkum íta hledur.

49. Verða kvíum virðar í, vopna hamast klidur, falla því í dreira dí, díngjum saman niður.

50. Spýtinn er óður þá, audüns kvinna skélfur bragníng stinna biltust frá, blóðs ógrinnis elfur.

51. Sundur rífur rønd og hlíf, rækt er líf og friður, unda stífa høndin hníf, hundrað skífir niður.

52. Kémpan háa hættir þá, her sínn tjáir viður: "fellið gráann flokk í strá, frægð eg sjá vil iður."

53. Evergítas hræumhlóð, hvar ótrauður stendur lætur spítast banablóð, bar alraudar hendur.

54. Spýtinn með æði þar, eldibranda tekur, brenna vinnur búðirnar, bítir randa frekur.

55. Undan leitar íta hvur, ei til hælis voga, þar hinn heiti hripuður, herdir svælu og loga.

56. Korintarar þúnga þrá, þarna mundu hreppa, meiga farast flestir þá, fáir undan sleppa.

57. Hirinn raudi hertjøldin, hrinja bragna lætur, gull og audinn Epýtinn, á bar vagna mætur.

58. Eptir slag so unninn þann, øldin leid um tredur, upp á draga Eru vann, aud og heidur medur.

59. Heit sín mundi hroftur brands, er hreistin gérir sloda, firir hundrad felda manns, fórnir ber til goda.

60. Festa Jóvis altar' á, einn med rúna letur, skabla lófa skérdir sá, skjøldinn núna gétur.

61. A þeim stendur: "Epýtinn, offrid mundi færa af því fjendur, annad sinn, einn gat hundrad særa."

62. Prestur tíginn Teoklur, til má búast ferda, sendi día sólbaldur, svidrir trúann gérda.

63. Hann skal goda sækja svør, í sagna vessum slíngum: "hvørt í voda væni kjør, veitist Messeníngum."

64. Einnig talar Epýtinn, "ef ei gódu svara, hvílla skal eg mækir minn og manna blódid spara."

65. "Veit eg allir eptir þrá, audna sú oss greidist, þessu fjalli eina á, ítum búa leidist."

66. Meinin strídid mønnum ber mørg, þad tídin sínir, enn hinn frídi fridur hér, farsæld lídinn krínir.

## Atjánda Ríma.

### Ferskeitt.

1. Strídid þegar augum á, opt og þrátt eg renni, bregdur mér í brúnum þá, í brjósti um suma kénni.

2. Þad er opt nær seggja sjót, sverda ber ad fundum, vinur neidist vini mót, vopn ad færa stundum.

3. Vini þó sér eigi einn, ad ást og trausti ríkur, á hann stundum ekki neinn, ádur deigi líkur.

4. Firir þeim er hildi há, og hjarta mildi bera, ást og víngan einalt þá, eitrud sár þeim géra.

5. Enn vér menn til ásta þó, erum skaptir saman, lestir þeirri ræna ró, enn róginn auka taman.

6. Atvik það sem einum ber, ánaud firir líða, vard að morði heilum hér, hvar sem skildir stríða.

7. Er því heimsins eldrud lóð, við adferð kónga daudra, sokkin undir saklaust blóð og sorga flóann snaudra.

8. Þó menn hér af þoli kaldt, og þiki nokkrum midur, það so nefnda illa allt, einhvors heillir slidur.

9. Atið þegar endar stríð, upp sem nægtir rætir, sú hinn frjóa friðar tíð, fólki skadann bætir.

10. Mér, sem vardar minst um slíkt, mundi nær að þilja sagna málið aungvu íkt, aski ljóma hilja.

11. Síðan Spartar senda mann, sá á fjalli Eru, inn kóm firir Epýtann, álfur járna beru.

12. Hvatamadurinn hjalað fær: "Herrar Spörtu þjóða vilja nú um vikur tvær vopna-hlé þér bjóða."

13. "Hátið stór í hendur fer, Hiasintíanna, um þá tíð ei óskum vér, að ausa blóði manna."

14. Aptur svarar Epýtinn: "annað til mun bera, um Korintara hópinn hinn, hauga viljið gera."

15. "Jarða ekki þorið þá þér við mína haga, samt þið skulud friðinn fá, fjórtán næstu daga."

16. Sendimadur síðan fer, settum lísir friði, hér við gladann huga ber, hvör af beggja liði.

17. Epýtitinn um þá stund, einn á viðum slordum sveima nam í Gerislund, sem hann biggði fordum.

18. Fedra grafir finnur spar, fadmar þær með tárum, honum vakna harmar þar, helst af firri sárum.

19. Um það mörgum orðum fer, aldagautur hrínga, hvörnig tekist hafi sér, að hefna Messeninga.

20. Medan þar á hnjánum hann, heit og bænir leingir, falla ifir frægdarmann, fimm ókéndir dreingir.

21. Vopnalausann vörðinn lands vinnur flokkur tédur, hendur binda á baki hanns, bogastreingjum medur.

22. Epýtinn við illa tér, æru snauða bófa: "ropnahvíld þó vilið hér, vinnið pretti grófa!"

23. Aptur hinir ansa þá: "oss mun bættur skaðinn, Anaxdamur oss mun fá, ærið gjald í staðinn."

24. "Heim til Sparta, hetjan tér, hafið mig sem snarast, fréttum þá hvört frækinn her, friðar brot ei varast."

25. "Sportu koma áttu í," ansa hinir, "síður, Anaxdamur okkar því, upp á fjöllum bíður."

26. Hann mun brádt af herðum þér, hausinn láta sniðinn, síðan skulum semja vér, sem þér lítst um friðinn.

27. Bera síðan hrottar hal, hæðir ifir fjalla, koma loks í djúpann dal, deigi fer að halla.

28. Gisting higgja hafa þar, í húsabæ sem finna, nú því hríðar væta var og veður eigi minna.

29. Öldruð kvinna ein þar bjó, úngri dóttur meður, firða bidur fá sér ró, first að kalt er veður.

30. Dável, "seigja hinir," hér hentar okkur næði, því að fángi okkar er, Epýtinn sá skjæði.

31. Mjøg við þetta mæðgum brá, minnstu þó til svara, rauðann kinna farfa fá, frejur ljóma vara.

32. Mærin ber á borðið vín, bragnar þorsta skérða, kérum ifir grønin gín, góðir sopar verða.

33. Hafa tóku hljóða rof, hljómur verður meiri því þeir drukku øgn um of (einsog stundum fleiri!).

34. (Gott er að fá sér hreifann haus, þar hornastraumur slítur; enn íllt að verða limalaus og liggja einsog sk....).

35. Þessir drukku þétt um stund, þær ei bjórinn spara, uns að féllu fast í blund, freirar óma skara.

37. Sú hinn íngri eja bands, ekki þar við nemur, ofur hægt til Epýtanns, ástúðleg hún kémur.

38. Vopnin móðir burtu bar, bragna allra hinna, mærin bønd af mærum skar, meiðir beða linna.

38. Bragníng snøggvast báðar þær, biður út að gánga, hann því næst í hendur fær, hvassann ættartánga.

39. Vekur nú með hljóðin há, hrotta gauta stránga, lætur síðan laufann blá, leika þeim við vánga.

40. Lítt er von hanns lundin grimm, lasta þrælum hlífi, sløgin veitti af fleini fimm og sletti alla lífi.

41. Hérnæst spir hann heiti að, hildir stjørnu lóna, aptur þá hinn íngri kvað: "eg heiti Teóna."

42. "Frelsi þér eg feigin vinn fjølnir grettirs ranna, af því Gorgur arfi þinn, er mér kjærstur manna."

43. Spýtítinn aptur þá, ansar lindis prúður: "þig eg nafni þekki á, þú míns sonar brúður!"

44. "Halnum gaf eg hest og lof, að hann þér ástir veiti, núna mun það ei um of, að efni jeg það heiti."

45. "Þú, sem fékkst mér frelsi' og líf, fús með kjænsku staka, silg oss nú hið væna víf, verðlaun þín að taka."

46. Ødlíng þakkar auðarhlín, enn þó veik að svari: "Arkidama móðir mín, með oss vil eg fari."

47. Hértil svarar hetjan: "já!" héðan þær sig búa, ferðast síðan ekru á, að Eru bigðum snúa.

48. Þegar heim með happi nær, hetjan þar á sæði, Górgi únga fljóðið fær, í faðma vefjast bæði.

49. Inðið sæta ødlast snar, álfur stjørnu voga hjarta mætir hjarta þar, heitar ástir loga.

50. Brúðkaup síðan búa þar, boðum eptir hara, nægð og príði nógleg var, neitt þarf ei að spara.

51. Þegar endar ølteitin og øldin þaðan sneiðir, Spýtítinn arfann sinn, upp á hæðir leiðir.

52. Talar hann við tíginn hal: "til mín nálgast elli, mínum slíng eg brandi' í bal, blóðs á þreittur velli."

53. "Goðin, hafa géfið svør, geigvænleg úr máta, ekki vilja okkar kjør, uppreisn vinna láta."

54. "First eg ekki megna má, Messeníu ad fría, "hédan vil eg fólkid frá, feti gøtu nía.

55. "Þú skalt ifir okkar þjód, Epýtítinn heita, farid út um adra lód, idur bigda leita."

56. "Hvar þú nemur nía grund, njótur mundarfjalla, muntu láta mímirs sprund, Messeníu kalla."

57. "Þá skal hreifa þeirri spá, sem þæguft er ad trúa, eittsinn hérna aptur fá, ættmenn vorir búa."

58. "Ekki mun eg idur med, út af laudi snúa, so er heitt mitt heiptargéd, hjá skal Spørtum búa."

59. Tignir gánga tali frá, tírar skabla hnúa Epýtinn frá Eru þá, efnir sig ad búa.

60. Spørtum þessa spurníng snar, spillir sendi gérda: "hvørt þeir sér til hindrunar, higgi enn ad verda."

61. "Og hvørt firda físi þá, firir mønnum silja, Arkadíu, Eru frá audinn til þeir flitja?"

62. Anaxander ráda réd, rekkum því ad svara: "ad þeir med sinn aud og féd, óhætt meigi fara."

63. Anaxdamur ílli baud: "ef þeir fara vilja, skulu þeir sinn allann aud, eptir hjá oss skilja."

64. "Gulli øllu og audi frá, oss þeir ræntu leingi, skilid þetta aptur á eg og Spørtu meingi."

65. Efórarnir undir med, íllum kóngi taka, sveinninn þadan sendur réd sínar leidir aka.

## Nítjánda Ríma.

### Ní afhendíng.

1. Lifgi gledi letur sagna fróda, medan kveda má eg ljód, meidi stjørnu slóda.

2. Vertu Idun! eigi midur enn fordum, mér vid hlid þá minda ljód, mána idu skordum.

3. Þú mér lánad lukku hefur mína, jeg hef án þín audnu kjør, eingin fram ad tína.

---

*) Aldírt Studlafalls úrkast mætti bragur þessi líka kallast. Utg.

4. Dúra milli dimmar vetur nætur, huga dillar hægum þá, harma stillast lætur.
5. Eins vakandi unun finnur blída, minn hjaranda hrafn vid þig, hamfarandi vída.
6. Þú mér hinna heima þilur sogur, einatt finn eg unun vid, af þeim spinna bogur.
7. Eins eg bid þú bauga vid ágjæta, vilsir Idun! ódinn vid, ekki midur kjæta.
8. Líkt og vindar velta mindum skía, sólar indis ásínd frá og elda kinda hlía.
9. Eins afbrái bragar skráin smáa, hvorri þrá er meida má, mána þráinn áa.
10. Skildi eg leingi ljóda streingi þreita, mætti eg eingja orma tír, indis geingi veita.
11. Nia bragi nú í lagi ad smída, ljúfum ægis ljóma freir, láta óhagir bída.
12. Þjód ef slínga þennann síngja heiri, kalla ríngann eg vil ód: Afhendíngu meiri.

13. Andsvør slinna Epýtinn þá heirdi, hetjan stinna higgin sár, heldur minna eirdi.
14. Nú var frída fridar tíd á enda, Spartar strídir aptur enn, erindi lídum senda.
15. Heimta án tafa trølla skrafid þétta, rænt sem hafa øll þau ár, arma stafir kletta.
16. Eru gramur ord nam tamur rækja: "Anardamur allann má, andinn framur sækja."
17. "Mánud bída mun eg lída hinna, á medan skrída má hann nær, ef meidmar tídir vinna."
18. "Ségnum herinn hanns eg fer ad rída, þá lidin er sú lénta tíd, med linna skérid frída."
19. Mánud sídan mildíng bídur heima, gullid frída í búnka bar, brúna vídir geima.
20. Lét í stángir steipa hánga dínu, framm á dránga fjardar bar, med fólki stránga sínu.
21. Frá Elíum fólk á kríum ára, sókti því um sama bil, sunnu día klára.

22. Þannig ærinn audinn færa lætur burtu, mæríng brøgdum med bragna tvær um nætur.

23. Anaxdamur ílli sama fregnar, hinum ama ekkért þó, ærdur gramur megnar.

24. Brann í skinni beitir linna tédur, heim ad sinni halda fer, herinn stinna medur.

25. Fer so tali'súlum kvalinn huga: "eingiun hal= inn hraustastann, heims í sal má buga.

26. Anaxander eins frá landamerkjum, þunda randa þokast lét, þakta brandar serkjum.

27. Er nú leidin opin meidum skída, en þá beid samt Epýtinn, ord nam greidur þída:

28. "Nú um sídir særdum lídi Sparta, fer ad svída og leidast laung, lausa hrídin svarta."

29. "Messeníngar meiga slíngir falla, sóktann híngad hafa þó, heidur ríngann valla.

30. "Einsog sunna sú ad unni lídur, glædir kunn= ann glansa sinn, geislum runnin frídu."

31. "Alleins má og eigló há úr sæsi, aptur stá vor ættarjørd, audnan há þad gjæsi."

32. "Nú ver hédan heidri medur førum, hvilik gledi gamlann mig, gjæda sedur kjørum."

33. Skjøldinn frída skeinkir sídan Gorgi, sildar hlída sólar tír og safnar lídi á torgi.

34. Øllum seigir ad þeir meigi hlída, fra þeim deigi so sem sér, svinnum freii skída.

35. Sveitir bid eg binda vid hann trigdir, hann sé idar Epýtinn, úngann stidja digdir.

35. Þá fer ódum þetta hljód um herinn: "únga rjóda Epýtann, audnan góda beri!

37. "Þessum hlíar heillir díar vandi, þjódin fría þjóna skal, þeim á níu landi."

38. Evergítas ordum sltíur þeigi, sama bítur heiptin hug, happa nítur eigi.

39. Þeim Elíum ord ad níu sendi, aldur hníginn Epýtinn: "ad áls á dí þeir vendi."

40. Børn og kvinnur bidur svinna lídi, sæfar linnum sækja á, so mun linna strídi.

41. Á Eru fjalli fjóra alla vetur, hetjur snjallar hafa þá, hast ófallid setur.

42. Sorgur hreini, hanns og reininn krafa, sannri eining ásta fest, átt tvo sveina hafa.

43. Innum frá ad ødlíng gráiSparta, hefur sá sem íllu ann, ærna þrá í hjarta.

44. Niflúng einatt njósnar sveina lætur, Eru leinast undir múr, ekki seina um nætur.

45. Attu ad gá hvørt aldrei þá vid bæri, ad þeir sjái opin hlid, eda nálægt færi.

46. Nú um eina nóttu meina vindur, í lopti hvein og hristi fast, haudur, steina og lindur.

47. Þúngu skiin þrumu drígja saungva, vatni spía og vedrum mest, veita fríun aungva.

48. Þar í nidi nætur ida grundir, ekkért vid so eira má, eidast fridar stundir.

49. Fjøllin emja um þau lemja vindar, af óhemju þrumum þá, Þúngir kremjast tindar.

50. Eins var þá og uppheims háa veldi, vildi í sjá umvelta jørd, med vedra þrá og eldi.

51. Allar kindur ædid vinda slúa, horfnar indi hvar sem má, Hæli í skindi búa.

52. Vakt á Eru undan snéri skúrum, vært þar sér ei vita menn, enn vørnin þver á múrum.

53. Heim þeir ida ekki hlidum læsa, þikir midur víga von, þar vedra skridur hvæsa.

54. Njósnarmadur nær allt þad ad frétta, Hvad sem skadar hleipur fá, heim med sladur þetta.

55. Eins og vindur votn og tinda stóla, Fótum hrindir hrekkja þjón, þó hvarma blindi njóla.

56. Anardam hinn íllsku tama vekur, søgur gramur sannar fær, sørla haninn tekur.

57. Lúdra skékur losdúng frekur brædi, alla vekur horna hljód, herinn þekur svædi.

58. Um þá stundu eingvir mundu bída, kveikja þundar eldum á, iljum grundir hída.

59. Verdur bædi vid þad ædi ad titra, vidris klæda valsan, og vedrid skjæda og bitra.

60. Fram ad Eru fjalli herinn kémur, hlidin eru opin þar, eitthvad ber til fremur.

61. Einginn vari er nú þar á lídum, inni hjara allir menn, óværdar í hrídum.

62. A hvílu sinni sefur inni lúinn, Epýtinn og valla veit vélin hinna búin.

63. Vakt og hlidin heldur lidid geima og med snidum enn sem fir, allt í fridi heima.

64. Enn þad voda vedur bodar skada, ad sér troda óvinir og ilja stodum hrada.

65. Spartar ida inn um hlidin stadar, sverdin skridu skeidum frá, skøglar hvidu hrada.

66. Anardamur ólmur nam so kalla: "bregdid gram og fellid fljótt, firda rama alla."

67. "Eingum hlífid allt hvad líf má geima, sundur skífid hvøssum hjør húsin rífid heima."

68. "Stadinn brennid, britjid menn í parta, hrottar enn vid hrístar leik hreisti kénni Sparta."

69. Hornin þjódir þeita í módi bitrar, undir hljóda ædi því, Era stód og titrar.

70. Virdar sá ad vakna þá af draumum, hlustum brá og huga vid horna þráu straumum.

## Tuttugasta Ríma.

### Oddhendíng.

1. Þann eg idar bekkti síd, þjód á svídi klaka, ódar lidugt efni víd, undud þid ad vaka.
2. Af tillögum mjúkum mjög, mána ögur skuldar, skáld í brögum hafa hög, heilar sögur huldar.
3. Bundin ræda hrínga hæd, helst var gjæda feingur; geima frædin forn, eg ræd, sögur kvædin leingur.
4. Sumir lá þeim, ljódin skrá, leti stjá þad þilja, not ósmá ei þeirra þá, þessir sjá né skilja.
5. Enn af beima brögum þeim, er börfar seima hlída, sögur streima um svella heim, síäst og geimast vída.
6. Vér sem gáum gamla skrá, geima náum trúa; Danir fá med furdu ad sjá, ad frædin hjá oss búa.
7. Virdíng sést því varin best, vor' í lestri sagna, kvædin hrest þó kunna flest, kannské mest ad gagna.
8. Líka héraf heima vér, hoppin gérum nitja, þegar ver vid kvæda kver, á kvöldum ser ad sitja.
9. Skilníng gódann skérpa þjód, skírd í fródum greinum, okkar ljód og efla hljód, allteins fljódi og sveinum.
10. Því forsmádi þjódin gád, þeigi, enn tjádu prídi, þá sem skrádu ljód um lád, laus frá hádi og nídi.
11. Hinum má ei hróstd fá, sem hvofta gráa þeita, hádúng sá um hrínga gná og hædnis skrá til sveita.
12. Slíkur sláni æru án, eidir bánu standi, mirdir lán vid mannords rán, mest forsmán í landi.
13. Físni þá eg eina á, ódar skrá nær laga, tignar háum háttu fá, hita láar braga.
14. Mildíng sá sem Eru á ordstír háann þiggur, hljóminn þráa heira má heldur þá var stiggur.
15. Einn kom snart med ópid djarft eidir bjartra spánga: "ad oss Spartar heldur hart hér óvart nú gánga."
16. Spýtitann ord vid nít, upp med slítir vekur, brinju hvíta, hjálm og rít, hirdir íta tekur.
17. Síst ofbaud þeim branda hand, blód í kauda fólginn, leiptrar audans eldíng raud ödlíngs dauda bólgin.

18. Saman gérir heimta her hann og fer so ordum: "mínar verid hetjur hér, hreísid berum kordum."

19. Gorgur þar hinn gildi var girdtur skari óma, megnid snara Mantiklar mundar ranann skjóma.

20. Evergítas eins med rít Epýtítann finnur, heiptin bítur, hetja nít helst sér slíta vinnur.

21. Panorm má þar hinum hjá, harla fráann líta, hlífa ljái heitum brá, hlinur gráu ríta.

22. Eru þjód med ófur hljód, áfram vód á múr-inn, hafa ódinns húsa glód, hellist blódug skúrinn.

23. Niflúng fríða um nætur tíd, nam ei kvídi skéra, eldaskídi skipar lid, í skoglar hríd ad bera.

24. Branda þá ei bera má, birtan frá því sneidir, vedur þrá og hrídin há, hristir þá og deidir.

25. Gafst ei drótt þá grímu rótt, þó gildur þróttur dugi, vedur ljótt og nídsvørt nótt, nístir ótta hugi.

26. Ødlíng gódur Eru þjód, ótar lódinns funa, Spartar ódum heira hljód, hanns um slódir duna.

27. Leita frá þeir hljódin há, heira nálæg vera, nokkrir fá þó helju hjá hildar ljá allsbera.

28. Mildíng rjódi á múrnum stód, moldin blódid søtrar, sækir hródug helja þjód, hristar slódin nøtrar.

29. Mundi íta undabít, Evergítas vega, hetjan brítur brinju og rít, bardist ítarlega.

30. Brandur skér enn búkarner, biltu sér um haga, loga hersa leiptur ber, loksins fer ad daga.

31. Spartar bláann benja ljá, betur frá eg skaki, brotid fá þeir hlídin há, hinum þá ad baki.

32. Filkíng stinn þar ædir inn, eidast hinna dægur, Epýtinn sér adgánginn, ekki minnur frægur.

33. Sini hari sínum þar, sóknar snari bídur: "múrinn vara mannsóknar, Mantiklar vid sídu."

34. Sjálfur vedur mági med, móti tédum skara, þjódum hledur hels á bed, hlidid rédist vara.

35. Enn þó má ei móti stá margnum, knáa hetja, helst til fáa hríng um þá, hinir ná ad setja.

36. Rennur blód og bleitir lód, brandar hljóda tídum, brennir ódinns eitrud glód, andar slódir lídum.

37. Eins hamfara vedrid var og vatna snarar flódum, glæding skara skruggurnar, skélfingar med hljódum.

38. Eingin vann á Epýtann, ad ódinns svanna þíngum, búnka manna bensvæfdann, bælir hann sig kríngum.

39. Hjør und' gnatar grana fat, gnaud sighvatar eldur, undin fnatad fjørmum gat, føllum skata veldur.

40. Hvad sem vinnur hetjan svinn, ad hoppum kvinnu nara, Spartar inn med allann sinn, æda stinnann skara.

41. Allar gøtur øldin hvøt, iggs í føtum þekur, undir gnøtra gjallar fløt geirvángs skøtum tekur.

42. Skálmin straung viþ skildi saung, skadanns laungu kvædi, verda þraung í gøtum gaung, greidist aungum nædi.

43. Margur dó þar hrottinn hjó, hlíf í gróu skøllum, æda flóa Era spjó, ofan sjóarføllum.

44. Hlaupa kvinnur út og inn, æfa vinnu nada, hinar finna húsþokin, hédan vinna skada.

45. Steina og vid um húsa hlid, hrundir rida ad mønnum, Sparta lidid fjærri frid, féll því nidur hrønnum.

46. Auduns glansinn Epýtanns, átti dans á skjøldum, ædi hanns var einkis manns abl ad stansa af høldum.

47. Glimur hjør þar simur fjør, falli kjøri venja, rimur spjør því vimur vør, vall úr skørum benja.

48. Hjálm' og randir raudum brand, um rimmu strandir tætir, orma sanda igg um land, Anaxander mætir.

49. Hrauſtir løgdu hlífa ſløgd, hermanns brøgdum vidur, brinja tøggd vard blódi døggd, bardar þøgdu midur.

50. Vid hjálmrødul blóds um bød, ball hrínſødull hala, á ſárnødum nøtra bløð, níſt í trødum vala.

51. Einginn má á milli ſjá, meſt hvør nái erja, ſem þá bláar bilgjur á, bjørgin ſjáar herja.

52. Veraſt vinnur Epýtinn, eins og ſtinna bilgja ſtendur hinn ſem hamarinn, hlés er innur filgja.

53. Spørtu her ad frægum fer, ſleina bera hvelur, ſtendur Era ekki hér, álma verum betur.

54. Evergítas ad med rít, innum brítur herinn, filgja nítum ſljódin hvít, fótbíts ſpítiſt verinn.

55. Víſin klár vid víga fár, vóru ſár í ordum, ſlakti hár og ſlódu tár, funa báru ſtordum.

56. Anaxander bíſt med brand, brúdum granda ſídur, undan þandi leid um land, lundur randa frídur.

57. Ekki linnir Epýtinn enn, þó hinn ſé víkinn, flokk á ſlinna foríngin, ſletrød vinnur mikinn.

58. Nárinn þjóda þekur ſlód, þundar glódir braka, ſtreimir blód, ſem falli flód, frjálſt vid tjódur klaka.

59. Gorgur hér ſem ærdur er, einginn ſér hann ſtúrinn, eida gérir ólmum her, einatt ver hann múrinn.

60. Mædi ſókti manna þrótt, meidaſt dróttir ſverdi, kémur nóttin aptur ótt, eingum rótt þó verdi.

61. Nóttu á þeir einnig há, elid gráa þundar, ſkalnar þá vid ſkjalda þrá, ſkiptaſt fá til blundar.

62. Hvíld á bed var lítil léd, linaſt gédid ſumum ſama vedur vara réd, vætu med og þrumum.

63. Fleſta þjáir þreita há, þunda bláu randa, dørfa þrá vid dreira lá, daga þriá nam ſtanda.

64. Anaxdamur einatt nam, auka ramann ſkara, hinum amar hlífa glam, hópum ſaman fara.

65. Vørnin þjáist Eru á, eidast kuáum gjædi, flestir láu um fjallid há, flatir þá af mædi.

66. Virda trauda vantar braud, vals um rauda granda, svefn og naud til bana baud, búast haudum randa.

67. Standa enn þeir miklu menn, málma spenna stinna, Epýtenn og son hanns senn, sókn þó kénni hinna.

68. Par hjá ítum undir rít, Evergitas þrejir, blóds þó spítist nønn óuít, nær hann síta eigi.

69. Panorms skari þjóda þar, þekkti snarann skjóma, og Mantiklar sem mannskap bar, medan varir róma.

70. Frækinn Eru sjóli sér, sofnar herinn gildi, stansa fer og higgur hér, hvad nú gérast skildi.

## Tuttugasta og firsta Ríma.

### Nír hrinandi.

1. Hristar bilsa háttu þilja, hlini sunnu brunna, skal til enda og sagnir senda, sverds um runna kunna.
2. Firr' á døgum fór eg brogum fram, er sídur prída, lídum hogu af líga søgum, ljód ófríd nam smída.
3. Skémta vildi' eg hadda hildi og hljóminn sagna magna, af Fertrams þætti, er aldrei ætti eirum bragna hagna.
4. Pá var úngur er vér súngum, af þeim þætti hætti, bísnum øllum, tøfrum trøllum, tóna slætti þvætti.
5. Mér vorkunar flóa funa, fródir uni runnar, ad á ládi í úngdóms rádi, ódinn spunnum kunna.
6. Lét eg sídar sagnir fridar, saungva tónum þjóna, af Pórdarsøgu samdi bøgur, selju lóna óna.
7. Jeg af slíngu Jómsvíkinga, járnahrídum sídan, orkti bragi ei þó dragi, anda gridar fridann.
8. Af Svoldar þætti saung eg hætti, sunnu vidis hlídi, þó mig ángrar þrikkíng ránga, þetta nídir smídi.
9. Frá Tistrani sidskeggs svani, so lét kvaka spaka, þessum vída virdar hlída, á vángi klaka taka.
10. Núma bragi, freir alfrægi, fékk so ljósa ósa af mínu tægi, í meira lagi, mun eg hrós þeim kjósa.
11. Pessa líka, ránar ríka rodla mæríng færi, mætti slíkar ljúfum líka, laungun kjærust væri.

12. Stód í vanda vørdur landa, vals ad raudum naudum, fáir standa og bera branda, báls af audunsbhaudum.

13. Enn þá stendur firir fjendum, filkir Eru kérinn, blóds um strendur ball í rendum, benja þveri skjerinn.

14. Pjádu lidi vigur vidur, vann alsvinnur kinna: "hvílid idur ei skal midur, adsókn sinna hinna."

15. Stidst á fleini hetjan hreina, hóp med einann sveina, Spartar mein ei magna reina, mundar teinum steina.

16. Gilsi sédur girdíng hledur, grjóti þá ósmáá, fólk þar med á fætur kvedur, funa þráinn áa.

17. Flokki sídan filkir lída, first hann undan skundar; næst þeim fríða frægstir ríða, fjalla mundar þundar.

18. Budlúng svinnur børn og kvinnur, bad þat nær sig færa og gautum linna gømlum finnur, gáng med kjærum stæra.

19. Aptast géngur gódur dreingur, Gorgur sá hinn knái, filgdu kappa hetjur happa, hildar þá med ljái.

20. Hlinir spjóta girdíng grjóta, géra fljótir brjóta, sídan fóta fimni njóta, flokknum móti ljóta.

21. Fram ad sóktu flokki drótta, freirar hvítu ríta, bjóda þókti augun ótta, Epýtítans líta.

22. Eldum harma heittir hvarmar, hreittu þá ósmáir hetjan bjarta hátt til Sparta, hrópar þá og tjáir:

23. "Rúm mér greidid lid so leidir, leiti frá" og bláann hjør þá reidir hlífa meidir, hinum brá ad sjá hann.

24. Anaxander ødlíng landa, undrun hér þó beri, baud til standa beggja handa, bjarnar her á veri.

25. Sparta milli múgur stillir, Messenara snari, fræga snillíngs ferd ei spillir, fólk med harbards skari.

26. Furdar Sparta hetju hjarta, helst þeim bætir kjæti, burt um sídir bjóst úr strídi, briutrølls gjætir mæti*).

*) Arístómenes vardist á Eru í 11 ár. Utg.

25. Hinn sem midur heill ei slídur, heldur leidir greidar, fer med idu Neda nidur, nada meidur heidar.

26. Ferd þá nía dreingir drígja, dæstir undvargs fundum, Arkadía finna fría, fjöllum und' á grundum.

27. Heim med snúa gildum grúa, gétur þídur lídur, þjódin trúa þar ad búa, þeim um hrid tilbídur.

28. Epýtítinn enn hinn níti ord vid treinir sveina: "hann vill slíta ferd sem hlíti og frægdir einatt reina."

29. Sitt erindi so med skindi, søgd um herinn ber hann: "fólk med hjarta fram til Sparta, filgi mér so tér hann."

30. Hvør sem hreisti og hug ei treistir, heima þídist bída; sá ei hrædist, hlífum klædist, hann í stríd skal rída."

31. Ein fimmhundrud um þá stundu, af hanns lídi fríða físist skunda fram um grundu, ef silkir tídir strída.

32. Hundrud þriú sig hlífum búa, hels ad stíu níu, í hanns grúa ætla' ad snúa, af Arkadíum fríu.

33. Enn þeirra gramur glæpa tamur, gamall fleina reinir, Anaxdami orda frámur, allt í leinum greinir.

34. Bréfin finna lundar linna, leind hjá hraki saka, þjódin svinna steina slimna, ad stillir skaka taka.

35. Meingid snara Messenara, med sér beida deida, og þvitum snara þá ad hara, þannig leidan neida.

36. Epýtítinn ad því gríti ekki stár né sárum, undan lítur lofdúng níti, enn laugar brár í tárum.

37. Hinir vinna á hrekkja slinna, haturs mergdar verdum, enn Epýtínn má láta linna, ad laga ferd med sverdum.

38. Spartar veit hann vørnum beita og vita rád hanns ádur, því má heitra hefnda leita hvørgi, dáda fjádur.

39. Evergítas hvørgi hlíta hefndir sér, því ser hann, frægdar níta finna íta, fljótt, vid herinn tér hann:

40. "Hvør vill freija fleina sveigja, kunann audunns rauda, med mér deija og hildi heija, heipt sem baud til dauda?"

41. Þeir sem leida unnu eida, alls fimmtíu, kvía hríng um reidann hirdir skeida, hjørva gní ad drigja.

42. Kvedja vini hita hina høfrúngs norar fora; í hug ólina helslódina hvatir spora þora.

43. Fram til Eru ódir snéru, ad um nótt þar sóktu, hlidin skéra hjørum beru, hreisa ótta þóktu.

44. Vaktarana brádt til bana, brendu tundur þundar, akra svana eisu granar, ad ása hundum skunda.

45. Sparta vekja høggva og hrekja, hvad sem inni finna, gøtur rekja, skjóma skékja, skada hinna vinna.

46. Undan slíta ferdum ítar, felast einatt reina, Evergíta grimd þá líta og gildu meinin sveina.

47. Hladum vedur, hvad sem skédur hann ad raudum naudum, skada medur hrada hledur hølum traudum daudum.

48. Kallar sveina sína og meina svørum stórum fór, um: "látid veina elda eina, ifir ljóra jórum."

49. Og sem snarast eldar skarast, íllt ei þar þeir spara, húsin farast lidid larast, logar þar sem vara.

50. Anaxander veit ad vandi, vex um dránga lánga, óslíandi lid af landi, leiddi strángur þángad.

51. Hinir sáu sem þad sáu, sókti gramur framast, reiddu þráir branda bláu, bísnum ramir hamast.

52. Elda kinda veltur vinda, veita lidi kvída, Spørtum hrinda á hópinn blinda, hinna er tídast strída.

53. Húsa dólga blódraud bólga, birti sal hervalar, bana sólgna, benjar ólga, beittum sal er svala.

54. Hetjur snjallar hljóta ad falla, er heitin sóru stóru; blódid vall af brjóstum fjalla, brands þar órar vóru.

55. Brandar audar brinjur nauda, blóds um haudur auda, ifir dauda akra snauda, eldar raudir gnauda.

56. Loksins ítar Evergítar, allir snídast frídir, enn eingvir líta bøl þá bíta, bana stríd þó svídi.

57. Sár þó grandi grafin braudi, geirs ei þundar stundu, fór þeigjandi úr þeim andi, eins og blunda mundu.

58. Med ofbeldi blód um veldi, buna og spítast hlítur, tírs þó héldi einn á eldi Evergítas nítur.

59. Stód einmana slód á bana, stálid reidir breida hlód andvana glód vid grana gálum, meidir skeida.,

60. Beitir slíngum blátírfíngum, badast slædi æda, sig í hríng um hræa díngjum, hlinur slædir klæda.

61. Valkøst háann vordin sá hann, virdum ná ei má þar; talar þá hann tród upp á þann, tundur þráinn láar:

62. "Ættjørd minni lán þó linni, þar laufar skéra vera, hér ad finni heidursminni, henni og mér skal géra."

63. Siklíng vildi sá hinn mildi, seggnum stífa hlífa, enn hinn trildi fast ad filgdi, filkirs líf ad hrífa.

64. Hjør ad rídur hjálminn snídur, hildíngs rjódur blódi, ødlíng frídur aungvit lídur, á féll slód hinn gódi.

65. Trølla maki mætti þjaki, mun áf vandi standa, gékk þá nakinn geir ad baki, gégnum andra randa.

66. Hót ei kvartar hetjan bjarta, holund meir þó dreirir; einum Sparta innum hjarta, enn hann geirinn keirir.

67. Fell so daudur hann á haudur, í hristar idu nidur, blódi raudur andar audur, ødlíngs hlid þó vidur.

## Tuttugasta og ønnur Ríma.

### Frumhenda.

1. Valkirjur! sem veittud mér, um vollinn blóds ad sveima, farid því eg þreittur er þér! til idar heima.

2. Hildar beru eingi á, andast hefur lidur, sverdin enn geingin grá, grenjandi í slídur.

3. Eg hef kvakað kvidur frá, kvernbíts storma fellum, eg hefi vakað idur hjá, úti' á deira vollum.
4. Hefi eg séð hvar hrundi þjóð og heltist sára alda, eg hefi kvedið undir hljóð, eggja, hjálma og skjalda.
5. Og nú midur idur hjá, uhir ljóða streingur, besta Idun! bið eg þá, bú: þú hjá mér leingur.
6. Vek þú blíðann muna mér, mild og glød í svari, að samtída eg uni þér! einatt medan hjari.
7. Mín afkvæmi medan þó mæru ann eg vifi, gjæddu nægmi, gledi, ró, gjædsku, stirk og lifi.
8. Eplin spara eigi þín, sem aldrei koma að þrotum, born so hjara meigi mín, mata þau að notum,
9. Nú í vetur valin þjóð, vildi kjæti gróa, oll knésetjum okkar jóð ángantíri glóa!
10. Valinn-tiginn vídfrægnr, vanur midla gjædum Thorlacius! tíð þægur taki nú við kvædum.
11. Lundi klaka hnefa hjá, hér þó linni skrifi, stundar sakir stefin smá, í Stikkishólmi lifi.
12. Veitist gódum gledi faung, gunni bjódar tídum, nær sem ljóda sedann saung, síngur hljódum frídum.
13. Raustin kvæda kjæti þann og krini nædi á medan, sem eg giæda ætíð ann, eg so slædist hédan.
14. Létti sverda laungum klid, leita járn í slídur, vitkast eptir aungvitid, Anaxander frídur.
15. Evergitas hanns vid hlid, heli liggur seldur; mirdta búkinn mannsins vid, mælti kóngur hreldur:
16. "Mundir ekki þora þú! sem þreittir mátt ofram-ann, vinskap taka vorum nú, værum bádir saman!"
17. "Soddan mundi að meta vert, menn nær reidin þvíngar, þvílik undur géta gért, gremja og ránglætíngar!"
18. Niflúng-brenna nái þá, nam vid loga bjarta, sídan renna fráir frá, firdar heim til Sparta.
19. Epýtinn, sem ádur skráð, Arkadíu bigdi þjódar svinnu þádi dád, þó að margt hann hrigdi.
20. Odlíng jafnan ama bar, ei má hefndum fara til hanns safnast saman þar, sveitir Messenara.
21. Mál vid hneigir neitann nid: "nóg er gott til efna, litst þér eigi að leitast vid, landa vorra hefna?"

22. Spýtinn sá íngri kvad: "eslum fridinn góda, gét eg vinnist þíngra þad, þundar bál ad rjóda."

23. "Eg vil gjæfu afla þjód og ønnur løndin skoda, hesta sævar hafla blód, hédan láta troda."

24. "So skal vera" seigir hinn, "ad sæla hyggdu standi, enn eg fer þó eigi minn arfi! úr þessu landi."

25. "Mér í hjarta eitur er eins og þú mátt trúa, því hjá Sparta heitid hér, hef eg fast ad búa."

26. "Hér ad bída bætir þrá, bøls þó svídi pína, hefndar tidin mæta má, máské um sídir skína."

27. Þegar vorid veitir il, virdar skipin búa, Gorgur forar teitur til trønu nádi snúa.

28. Messenarar þídir þá, þreknum hara kundi, allir fara frídum tjá, silgd á marar hundi.

29. Meira aldinn mildíng þá, medur auda hljódum, fram ad kaldri silgdi lá, fólki og nidja gódum.

30. Fadmar hari frídann nid og fólkid allt sem gétur, túnid þara þídur vid, þá sig einann setur.

31. Gorgur kvinnu og sini senn, sína á skeidir tekur; velur svinnur vini enn, þar vøgnum flóa ekur.

32. Med á lóni mjaldurs fer, Mantiklur hinn frægi, Pandíon sem aldinn er, einnig gékk ad sæi.

33. Enn nær skati alla sá, øld sig skilda vidur, lætur flatur fallast þá, í flædarmáli nidur.

34. Hetjan tvista huldi brá, harma tók og kvarta; "núna first," hann þuldi þá, "þú hefur sigrad Sparta!"

35. Brjóstid nagar neidin þrá, nádar godin bidur, nokkra daga og þreidi þá, þaungla stólinn vidur.

36. Upp ad fjøllum færist þá, feingur stjørnu hvera, mønnum øllum mæríng sá mundi hulinn vera.

37. Messeníngar halda' á høf, hrinur kári núna, hríngshirníngar tjalda trøf, teigd um rár og húna.

38. Høldar vestur halda þá, hæg er vinda kilja, ára hesta aldau há, áform síndist skilja.

39. Greipar sjórinn slenna fer, ferdin líkak hølum, rángajórar renna sér, reidar líkir hvølum.

40. Skutum hoppar údur á, undan slani boda, silfrintoppum súda þá, saud um granir froda.

41. Jøtun vinda brúnum brá, úr bæli vann ad standa, sat á tindi og húnum hjá, hvæsti blídum anda.

42. Jóra hnídíngs heida þá, himinglæfa stidur, sona lída leidin má, líkt og gjæsan bidur.

43. Væru því ad vedri brá og vatna lüst nidur; Italíu nedri ná, nú Reggium vidur.

44. Anaxílas þídur þar, þeingill borgar lída, hjá sér bíli bídur snar, brjótum øllum skída.

45. Gorgur eigi þiggur þad, er þeingill baud hinn mildi, humra veigi higginn ad halda aptur vildi.

46. Kóngur silgja lætur lid, lundi orma sanda, vagna bilgju væta rid, vindar í skautin anda.

47. Um dúfu midid dika slei, drøfn sem hrinda tídir, Sankle vid í Sikilei seglin binda lídir.

48. Víkings þjód sem heldur hér, hrotta þrá med brædi brendu ódinns eldarner, eins og strá af svædi.

49. Gorgur taka rjódur réd, ríkin stadar sénu, hetjan spaka hródur med, heitir þad Messenu*).

50. Þar vér heitum þannig enn, þeingills lid ei midur, heilla neitir sannra senn, sæld og fridur stidur.

51. Um þrjú hundrud þannig ár, þjódin spaka undi, sídan mundu sannast spár, sveit tilbaka skundi.

52. Þá Messenu gømlu gékk, garpa sjót ad biggja, hvargi séna hømlun fékk, hrafninn njótar stiggja.

*) Stadurinn heitir nú Messina, og er einhvør hinn helst verslunarstadur vid midjardarhafid. Gorgur settist þar ad, hérumbil 667 árum firir Christi fæding. Utg.

53. Toblur giltar grundu á, grúi finnur líða, málið spillt ei mündi þá, manna hinna tída.

54. Þessum vil eg venda frá, valtírs hauki snara, máli til eg endur á, Epýtanns að fara.

55. Frétti goðin aldinn að, askur skara día, hvørt þau stoða haldi það, hefnd að birja nía.

56. Happa eingin heitin fær, hann af munni goða, greinir leingi þreitir þær, þráinn sunnu boða.

57. Damagétur ráða réð Ródusei og verja; døglíng lét sá dáð er léð, Delfis spirja herja.

58. Sér hvar skildi svanna sá, sendir ála skara; goðin mildu þannig þá, þessu máli svara:

59. "Frægsta Grikkja foringjans, fest þú dóttir blíða, bedja skikkju borin hanns, best oss þókti hlíða.

60. Með tilløgum sveina sá, sígtír glansa ósa, unga møgu eina þá, Epýtanns nam kjósa.

61. Gullskorð heita góðum beim, gilfi þjóða knáði, silgi veita sljóði heim, fram til Ródus náði.

62. Mágur heita milding vann, því mannskaps hjarta stiður, að skildi þreita hildi hann, herinn Sparta viður.

63. Firr enn móður má hann þó, mækja slíta slagi, einni Róðs á þar dó, Epýtítinn frægi.

64. Þannig fallið finnur eik fúin, hress þó stæði, þannig allra linnir leik; líka þessu kvæði*).

*) Hérumbil ár 743 f. Christi fæðing firsta Messeniska stríðið, sjá bls. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . 4.
— — 735 fæddur Aristómenes . . . . . . . . . . . 8.
— — 724 var Itóma hertekin . . . . . . . . . . . . 16.
— — 685 birjaði síðara Messeniska stríðið . . . . . 21.
— — 668 endaði síðara Messeniska stríðið . . . . . 85.
— — 651 dó Aristómenes . . . . . . . . . . . . . 92.

